# Bæna-Kver,

innihaldandi

Viku- Kvøld- og Morgun-bænir,

Daglega Morgun- og Kvøld-bæn,

Viku-Kvøld-bænir

og

Hátída-Bænir.



Kaupmannahöfn 1832.
Prentad, á kostnad Þorsteins Jónssonar,
hjá S. L. Møller.

# I.
# Viku- Kvöld- og Morgun-Bænir.

## Sunnudags Morgunbæn.

Ó allra kjærasti Herra Jesú Kriste! Þú, sem með þinni heilögu upprisu frá dauðum hefir helgað sunnudaginn framyfir alla aðra daga; vér þökkum þér af öllu hjarta, að þú svo náðarsamliga hefir varðveitt oss, á umliðinni nóttu, frá allri ólucku, fári og skaða, bæði á sálu og líkama. Æ herra Jesú! hvörjar þackir skulum vér segja þér, að þú sjálfur, sem vaktari, hefir vakað yfir oss? hvarmeð skulum vér borga þér, að þú hefir sett þína heilögu engla eins og eldmúr kríngum vora sæng og hvílu? Hvað erum vér, að þú vyrð-

ir oss svo mikils, og verndar oss svo vel sem þinn augastein? Þú hefir gjört oss svo mikið gott, bædi andliga og líkamliga; en hvørja orsök kunnum vér þartil að færa, utan að þú sért náðugur, og inniliga miskunsamur? Og vildir þú á þessum degi heimsækja oss með nockurri ólucku, hvað kynnum vér þartil segja, nema að þú sért réttlátur? Því vorar syndir eru stórar, vorar misgjørdir margar, allt vort líf er einber synd, og þar er slétt eckert gott hjá oss framar: það góða sem vér vildum gjøra, gjørum vér ecki, það vonda, sem vér vildum ecki gjøra, gjørum vér allt of mjøg: O! vér aumar manneskjur! Ea, æ herra Jesú! svo grófir syndarar sem vér erum, biðjum vér þó, að þú viljir vernda oss á þessum degi frá øllu illu, til dýrðar þínu stóra nafni, og velferðar aumum sálum vorum. Æ herra Jesú! lát oss í dag með lystíngu gánga upp til þíns heilaga musteris, til að tilbiðja þína miskunsemi, í þínum sønnum ótta! lát eckert orð talað verða, sem vér ecki geimum í føgru og góðu hjarta og berum ávøxt af í staðfesti! Lát oss brúka þennan heilaga

hvíldardag, til heilagra þánka, heilagrar umgeingni, heilags lífernis og lifnadar, svo vér eckert þrældómsverk tökum oss í hendur, edur neina synd í vor hjørtu, hvarmed yfirtrodast kynni Guds heilaga Sabbat. O gódi Gud! send þinn góda Anda, þinn verduga heilaga Anda, í vor hjørtu, sem oss hjálpa kunni móti syndinni! lát þinn Anda sameinast vorum anda, ad þinn vilji megi vera vor vilji, þitt ord vor lysting, þitt ríki vort himnaríki. Kénn oss, ó Jesú! í dag og á hvørjum degi rétt ad þenkja um vorar syndir, í dag og á hvørjum degi ad gráta vorar syndir, í dag og á hvørjum degi skyljast vid vorar syndir! svo ad, ef vér lifum, þá megum vér lifa Drottni, ef vér deyum, þá megum vér deya Drottni; og hvørt vér lifum eda deyum, megum vér heyra til Drottni. O Drottinn! gjør vel vid þína kyrkju, sem þú af nád þinni hefir plantad medal vor. Bevara þitt ord og þín sacramenta, hvør ed eru þau einustu medøl, sem þú hefir géfid oss til sáluhjálpar. Stattu alltíd hjá Konúnginum, og øllu því konúngliga arfahúsi, med lucku, sigri og velfarnan!

Leid vor nádugu yfirvøld, bædi andlig, og veraldlig, í þínum sanna ótta til allrar blessunar! O Drottinn! blessa vor lønd og ríki, med fridi og rósemd! Blessa vora líkami med heilsu og heilbrygdi! Blessa vora akra og eingjar, vort fé og fénad, vor hús og fordabúr, til lífs uppheldis, med signíngu og blessan! O Drottinn! gef braud þeim fátæku! hugga þá forgandi! hugsvala þeim vesælu! fyrirgef syndirnar þeim ydrandi! O Drottinn! miskuna þig yfir allar manneskjur, og vertu oss aumum syndurum í dag, og á hvørjum degi nádugur! O Gud! bevara mína kjæru (húsbónda, kvinna, foreldra, børn og hjú) ættíngja og vini fyri allri sorg, ángist og ofsókn! Vertu, ó Gud! vor skjøldur og verja móti djøflinum og øllum vondum mønnum! Lát enga ólucku yfirfalla vorn líkama edur sál, hús edur heimili, góz edur formeigan! Og viljir þú endiliga straffa, ó Gud! þá straffa oss ecki í þinni reidi, og typta oss ecki í þinni grimd! Gjør ecki vid oss eptir vorum syndum, og gjald oss ecki eptir vorum misgjørdum, heldur haf máta á straffinu; haf

þolinmædi vid syndirnar, og mýk reidina! Og helst þegar hin sídasta daudans neyd er fyrir hendi, þá tak þú sálir vorar í þína hønd; þvi þú hefir frelsad oss, Drottinn trúfasti Gud! Eylífliga lofad og prísad, blessad sé þitt nafn ad eylífu. Amen!

**Versid:**

Sjálfs Drottins sæta rád, sunnudag þennann á, sparad med nægri nád, nú hefir mig eunþá, hans nafni heidur tel, hann bid eg þennan dag, mig geimi, verndi vel, vænstum í sældarhag.

## Sunnudags Kvøldbæn.

Heilagi Herra Gud! heilagi sterki Gud! heilagi líknsami lausnari, þú æfinlegi Gud! vér aumir syndarar, óverdugir vid þig ad tala, þar vér erum ecki annad enn dupt og aska, þøckum þér í hjartans djúpustu audmýkt, fyrir allt gott sem þú hefur audsýnt oss. Drottinn! þínir velgjørningar eru margir, og þínar miskunsemdir eru hvørn morgun nýar. En sérdeilis þøckum vér þér af øllu hjarta, ad þú hefir svo vel verndad oss, á þessum degi, frá

øllum skada og allri ólucku, bædi á líkama og sálu, og þaradauki kénnt oss med þínu heilaga ordi, hvad þú villt ad vér skulum gjøra. Æ hjálpa oss, vor Gud! fyrir Jesú Kristí pínu og dauda skuld, ad vér, af þínu ordi megum svo læra ad þeckja vorar syndir, ad vér á þessari nótt og á hværri nóttu, vætum vort legurúm med harmi, og vora sæng med grátandi tárum. Æ stóri Gud og Fadir! vér høfum syndgad í himininn, og fyrir þér, og erum ecki lengur verdugir ad kallast þín børn, en fyrirgéfdu oss allar vorar syndir, fyrir Jesú Kristí skuld! minnstu ecki á vora misgjørnínga, heldur á þína mjøg stóra miskunsemi og medaumkan, sem verid hefir frá eylífd. Vér høfum lagt synd á synd ofan, og druckid í oss synd og órettlæti, eins og jørdin vatnid; og sérdeilis høfum vér ecki haldid þennan dag (hvørn þú sjálfur hefir skipad helgan ad halda þínu nafni til dýrdar) med svo stórri andagt sem oss bar. Vér høfum ecki med svo stórri ástundun, tekid eptir prédikuninni og Guds ordi, ecki heldur talad um þad vid vort heimilis-fólk, sem vér áttum ad

gjøra; og jafnvel þó vér þeckjum margar aumar, fátækar, nauðþurftugar, sjúkar, og vesælar manneskjur, svo høfum vér þó ecki vitjað þeirra, ecki hjálpað þeim, ecki huggað þær, sem þú, vor Guð! hefir boðið osß. Nú, þetta ángrar osß af øllu hjarta, fyrirgéf osß það, Guð! af þinni stóru náð, fyrir Jesú dauða og pínu skuld, að vér svo illa høfum lifað þennan heilaga dag. O Guð! straffa osß ecki í reiði, høndla ecki við osß í þinni bræði; enn Drottinn! vertu þinni aumu kristni náðugur, og lát osß alltíð halda þínu heilaga orði og þeim háverðugu sacramentum í þeirra réttri meðferð, allt til heimsins enda! (O Guð! vertu náðugur vorum náðugasta Arfaherra og Kongúngi, og lát alltíð hvíla luckn og blessan yfir øllu hans húsi! O Guð! vertu náðugur hans konúngligu majestatis-ráði, og øllum hans trúum mønnum, og undirsátum andligrar og veraldligrar stéttar! O Guð! lát hans stríðsmagt alltíð vinna sigur til dýrðar þínu nafni, og velstands ríkjunum!) O Drottinn! afvend stríði, og blóðsúthellíngum, pestilentíu, og bráðum dauða, eldibrandi og þjófahendi, og

allri annarri ólucku! O Gud! géf oss luccu og blessan, gróda af jördinni, vötnunum og trjánum, og not af öllum sképnum, sem géta þénad oss, þínum börnum til góda. O Gud! vertu nádugur þeim fátæku! Gud hjálpi þeim undirþricktu! Gud forsvari allar ecckjur og födurlausa! Gud umvendi öllum syndurum! O Gud! miskunna þig yfir allar manneskjur, og haf á þessari nótt, og hvörri nóttu þína varateckt á oss, og öllu voru húsi og heimili! Bevara (húsbónda, kvinnu, foreldra og börn) ættíngja og vini, góts og formegan, og allt þad þú hefir gefid oss, frá allri ólucku! og viljir þú af oss taka vort líf á þessari nóttu, svo lát þessa huggun verda allt til enda stadfastliga i voru hjarta, ad þínir heilögu Englar muni taka vorar sálir, og bera þær í fadm Abrahams, og ad þú viljir sjá vel fyrir öllum vorum, sem eptir lifa! Heyr þetta og bænheyr, ó gódi Gud! fyrir Jesú dauda og pínu skuld; amen, i Jesú nafni amen!

Versid:

Miskun Guds gofgud sé, gódann dag lifad hef, audgadur ædsta fé orda Guds mig innvef;

Faðir ei forlát mig, fríð gef og finnið rótt, blessaður, bið eg þig, bevara mig í nótt.

## Mánudags Morgunbæn.

O Drottinn! þú almáttugi, miskunsami og náðugi Guð! þú, sem hefir þína stóru lystíngu til mannanna barna! Vér þökkum þér af vors hjartans grunni, fyrir þína stóru, ósegjangligu, föðurligu elsku, með hvörri þú alltíð hefir elskað oss. Þú þeinkir alltíð til vor, og gleimir oss ecki; þú ber umsorgun fyrir oss, og yfirgéfur oss ecki. En sérdeilis þöckum vér þér, vor Guð! fyri það, að þú hefir bevarað oss, á þessari umliðinni nóttu, frá allri ólucku og skaða, sem með öllu móti hefði gétað yfir oss komið. Nú biðjum vér þig, vor Guð! fyrir Jesú Kristí skuld, að þú viljir géfa oss þinn verðuga heilaga anda, í vor hjörtu, sem stýri og stjórni oss á þessum tilkomandi degi frá öllu illu, sem fræði oss og leiði til alls góðs, sem styrki oss og biðji með oss, í allri vorri neyð og ángist. O Guð! lát þennan dag vera vorn rétta um-

vendunardag! lát þennann dag vera ofs góðann og luckulegann dag! lát allt, þad vér tøkum ofs fyrir hendur, blessast og fá framgáng! Lát þína heilögu Engla leidsegja ofs á øllum vorum vegum og stigum! Lát aldrei vora trú, von, kjærleika og þolinmædi verda ad aungu! O Gud! vidhald þínu heilaga ordi og þínum háverdigu sacramentum í þeirri sáluhjálpligri tídkun, til heimsins enda, svo vér ecki missum neitt af øllu því, sem þénar til vorrar sáluhjálpar. Gud vitji Kongúngsins og Kongúngsins húss, til hins góda! Gud láti øll vor andlig og veraldlig yfirvøld vaxa í réttlæti og Jesú Kristí náð! O Gud! géf ofs frid í løndunum, lucku í landamerkjunum, og braud í húsunum! Gud afvendi, edur og nádarsamliga mildi allar yfirhángandi hegníngar og plágur fyrir Jesú dauda og pínu skuld! Gud veri miskunsamur vid eckjur og fødurlausa! Gud! géf þolinmædi øllum þeim, sem andvarpa undir krossinum og hjálpa þeim, nær tími er, þínu nafni til dýrdar, og þeim til sáluhjálpar! O Drottinn! gjør samþycki milli manns og kvinnu, og lát aunga tvídrægni

vera milli eins náúnga og annars! og umfram allt, vor Guð! gjör þína síðustu miskunsemi við oss stærri enn þá fyrstu, og varðveit oss í dag, og á hvörjum degi með (húsbónda, kvinnu, foreldrum, börnum) ættingjum og vinum, húsi og heimili, frá allri ólucku! O Drottinn! vér látum ecki af að kalla til þín, því þú ert vor Guð! vér sleppum þér ecki, fyrr enn þú blessar oss, hér með náð, en á himnum með sáluhjálp! Æ hjartagóði Guð og Faðir! vér kvörtum og viðurkénnum, að vorir hjartans þánkar eru allir vondir hvörn dag, svo vér megum skammast vor, að útbreiða vorar höndur til þín. Því vorar syndir eru margfaldar vorðnar, og vor skuld nær allt í himininn; vorar syndir eru oss yfir höfuð gengnar, og orðnar oss þúngar eins og þúng byrði. Viljir þú, ó Drottinn! gánga í dóm við oss, þá gétum vér ecki svarað þér einu orði til þúsund. En, æ náðugi Guð! fyrirgéf oss vora mörgu og grófu misgjörnínga! Kasta öllum vorum syndum frá þínu augliti, og dreck þú þeim í Jesú undum og sárum, svo þú sjáir þær aldrei meir að ey-

lífu, svo ad, þegar vér gánga egum gégnum þá myrkvu dali daudans, þurfum vér ecki ad hrædast neina ólucku, og nær vorar aumu sálir skulu útfara af líkømunum, þá megi þær upptakast í Guds høndur, hvar eingin pína snertir þær. Bænheyr oss auma syndara, ó nádugi Gud! miskunsami frelsari! þú eylífi Gud! þínu stóra nafni til æru, og oss til eylífrar sáluhjálpar! amen. Bænheyr oss nádarsamliga! amen!

Versid:

Hædsti Gud! hvíld í nótt, hagkvæma þadi eg, gæfu og gédid rótt, gladur á allan veg; lausnarinn, lof sé þér, littu í dag til mín, oll snúi mein frá mér, miskunin leidi þín!

## Mánudags Kvøldbæn.

O hjartans allra elskulegasti Gud, og gódi Fadir! þú, sem veitst ad margar eru vorar yfirtrodslur, þú sem þeckir vora hjartans vondsku, og allar vorar gjørdir eru þér kunnar; vér kvørtum og vidurkénnum, og ángrumst af hjarta, ad vér høfum svo illa lifad, og ennú

á þessum degi lagt synd á synd ofann. Ó herra Guð! vér skömmumst vor, vegna vorra synda, og blygdumst við að upplypta vorum augum til þín; því vorar syndir eru fleiri enn sandurinn í sjónum, og vorar skuldir ná allt uppí skýin. Enn æ! vor nádugi Guð! þú, sem geingur frammhjá yfirtrodslunum, og tilreiknar ecki misgjørdirnar ydrandi hjørtum; Vér hrópum til þín; vertu á þessari tilkomandi nótt, oss aumum syndurum fyrir Jesú Kristí skuld, miskunsamur og nádugur! Sjá, vor Guð! med kinnroda og blygdun, þeckjum vér nú og medkénnum vorar syndir, og med hjartans ángri og ydran syrgjum vér yfir vorum yfirtrodslum. Æ vor Guð! skammast megum vér vor, og vér værum med þeim synduga tollheimtumanni ecki verdugir ad upplypta vorum augum til himins, vegna fjølda vorra misgjørninga; Drottinn! þú ert réttlátur, en vér megum skammast vor. Drottinn! ef þú vildir gánga í dóm vid oss, þá kynnum vér ecki ad svara einu ordi til þúsund. Enn, æ vor nádugi Guð! straffa oss ecki í þinni reidi, og hyrt oss ecki í þinni grimd!

Æ Drottinn! gjør ei við oss eptir vorum misgjørníngum! Æ Drottinn! gack ecki í dóm við oss, pína syndugа þénara, því þá kunnum vér aldrei að standast fyrir þér. Enn, ó Guð! svosem þú hefir ætíð verndað oss, svo eckert íllt hefur yfir oss komið, og engin plága nálgast vorn bústað; svo vernda oss ennnú náðarsamliga á þessari tilkomandi nóttu, frá øllu illu og allri ólucku, bæði til sálar og líkama, svo viljum vér prísa þitt nafn, og vorar sálir skulu árla vakna, og þacka þér, Drottinn! meðal þjóðanna, og lofsýngja þér meðal mannanna, því þín miskunsemi tekur svo vídt sem himininn er, og þín líkn svo vídt sem skýin útgánga. O Guð! í þínu heilega orði og þínum háverðugu sacramentis (sem eru þau réttu náðarmeðøl) høfum vér og allir syndarar, allt vort traust til sáluhjálpar; svo lát þarfyrir þitt orð búa alltíð ríkugliga meðal vor, og lát Satan aldrei rífa það burt úr þeirra hjortum, sem það heyra; og lát þau heiløgu sacramenta rótfesta í oss sáttmála góðrar samvitsku. O Guð! Konúngurinn er landsins faðir, og kyrkjunnar fósturfaðir; svo

vernda hann og allt það kóngliga hús frá øllu illu, að allt megi frammkoma hjá oss Kónginum og føðurlandinu til góða! O Guð! leið Konúngsins ráð í þínu ráði, og hans stríðsmagt í þinni magt, svo hvørr megi brúka ráðin, og magtina svoleiðis, sem þeir á sínum tíma vilja forsvara, fyrir þeim, sem yfirmagtina hefir. O Drottinn! vér andvørpum eptir frið og rósemi, eptir heilsu og heilbrigði, eptir lucku og blessan, eptir brauði og fæðu. O Drottinn! heyr vora bæn, og lát vort andvarp koma til þín. O Guð! lát þá þúnga dýrtíð, það blóðuga stríð, þann skaðliga eldibrand, og alla ólucku vera lángt frá oss, svo vér mégum sjá og þeckja, að þú ert vor Frelsari, vér, sem vonum á þig. O Drottinn! þú ert øllum þínum børnum náðugur; svo ver þarfyrir náðugur, og lækna þú sjálfur þína sjúku og veiku! hugsvala þeim sorgbitnu! hjálpa þeim nauðlíðandi! hugga alla huggunarlausa! forsvara allar eckjur og føðurlausa! miskuna þig yfir allar manneskjur bæði til lands og vatns. O Guð! miskuna þig á þessari tilkomandi nótt, yfir oss og allar

mauneskjur. Hald í náð þinni mektugu hendi yfir vorum (húsbónda, kvinnu, foreldrum, børnum); ættíngjum og ástvinum, gétzi og formegan! Lát eckert íllt koma yfir oss, eda nockurn af øllum vorum! Gud! miskuna þig yfir oss auma syndara, og forlát oss vora misgjørnínga! Gud! géf oss upp vort forþént straff! Gud! mýk þína reidi! og ad sídustu, ef vér á þessari nóttu egum hér frá ad skiljast, svo géf oss Gud! sáluhjálpligan vidskilnad, ad vér med gledi og þackargjørd megum bída eptir vors Drottins og Frelsara Jesú Kristí dýrdar opinberan, oss til sáluhjálpar. Þitt stóra nafn, ó Gud! veri lofad eylífliga! amen!

V e r s i d:

Ædst lof og dávæn dýrd, dags fyrir gædi, og lid, se þér, skaparinn! skýrd, skoda hvørs eg nú bid, fyri þíns Sonar sár, sendtu mér hvíld og ró, i nótt svo eckert fár, auki mér rauna sjó.

## Þridjudags Morgunbæn.

O þú almáttugi Gud! elskuligi himneski Fadir! þú, sem ert Gud allrar gjædsku, frá

hvørjum allar gódar gjafir koma! Vér þøkk-um þér af øllu hjarta, ad þú híngad til hefir sýnt oss þig nádugann, ad þú hefir látid oss eckert bresta, sem þénad gjæti til vorra aumu sálna velferdar. O Drottinn! þín gjædska hefir alla túma verid ríkuglig yfir oss, allt til þessa dags, þú hefir sparad vorar sálir frá fordjørfuninni, þú hefir krýnt oss med mik-illi nád, miskun og medaumkan. Adgjætum vér þær undanførnn tídirnar, og hugleidum árinn, þá hefir þú ríkuglega géfid oss nægtir allra gjæda; vér þøckum þér nú þarfyrir af hjarta. Sálir vorar skulu alla tíma lofa og prísa þitt heilaga nafn; vakna upp vor psalt-ari, vakna upp vor harpa! vér viljum árla uppvakna til ad prísa þína gædsku, ad þú hefir verndad augu vor frá grátinum, fætur vorar frá hrøsuninni, líkami vora frá for-djørfuninni, og sálir vorar frá allri óluckn; en sérdeilis, ad þú á þessari umlidinni nóttu hefir haft gát á oss, eins og hænan á sínum úngasképnum undir vængjum sér. O þú nád-ugi Gud! eins bidjum vér þig á þessari morgunstund; neitadu oss ecki um þad! vertu

oss aldrei svo reidur, ad þú annadhvort burtsnúir, eda umsnúir þínu sáluhjálpliga ordi, og þínum háverdigu sacramentum, svo þau blísi í sinni réttu tídkun, oss til sáluhjálpar, allt til veraldar enda. (O Gud! úthell þinni nád yfir vorn allranádugasta Arfaherra og Kóng, med allri vardveitslu yfir ollu Kóngsins húsi! O Gud! blessa hans konúngligu majestatisrád, med allri hans stridsmakt bædi til lands og vatns!) O Drottinn! afstýr húngri og dýrtíd, strídi og blódsúthellíngu, eldsnaud og vatnsvoda, og ollum hættuligum sjukdómum; en send oss þarámóti lucku og blessan, bædi á líkama og sálu! Gud gési frid um vora daga! Gud blessi vora akra og eingi, vora næríng og atvinnu og allt þad, sem hvorr einn í sínu embætti tekur sér fyrir. O Drottinn! gleim aldrei þeim fátæku! forsvara þá undirþryktu! umvend þeim óréttlátu! Heyr allar eckjur og fedurlausa! vertu nádugur ollum, sem þinnar nádar medþurfa! og sérdeilis, bevara oss auma syndara þennan dag og á hvorjum degi, med ollu því vér egum og hofum, med (húss-

bónda, kvinnu, foreldrum, börnum) frændum og vinum, góðsi og formegan, frá allri vel forþéntri og yfirhángandi ólucku! Sjádu, Drottinn! ad vér erum dupt og aska! miskuna þig í dag og hvørn dag yfir oss, og lát þína miskun vera hvørn morgun nýa! Gud nádi oss! vorar syndir eru margar, og vorar misgjørdir hafa fengid yfirhønd, svo vér óttunst, ad dagur hefndarinnar sé kominn, ad þú munir ecki leingur lída vorar syndir. Enn, æ Drottinn! lát þó ecki þitt hjarta snúast svo aldeilis frá oss! Vertu ennnú nádugur, og lát oss ecki forgéfins leita þín í neydinni! Lát þinn Anda koma vorum veikleika til hjálpar, svo vor morgunbæn megi álítast fyrir þér, sem reykelsi, og vorra handa upplypting, sem kvøldoffur. Og þegar ad kémur vor sídasta stund, þá lát oss heyra þessa glediligu raust. Komid blessadir, míns Födurs, og erfid þad ríki, þá gledi og sáluhjálp, sem ydur er fyrirbúin, frá upphafi veraldar! Þér, ó Gud Fadir! sé dýrd og prís, sem med Syninum og heiløgum Anda lifir og ríkir, einn sannur Gud, ad eylífu, amen!

Versid:

Lofi þig lífid mitt, Lausnarinn, túnga og mál, í nótt því augad þitt adgjætti mína sál; leid mig med hjálparhønd, Herra! svo blessist eg, aftaki eymda grønd, ástin þín guddómleg.

## Þridjudags Kvøldbæn.

Vér þøckum þér, ó almáttugi Gud! himins og jardar skapari, ad þú svo nádarsamlega hefir bevarad oss á þessum degi, frá øllum háska og skada bædi til lífs og sálar; þú hefir svo sem geingid med oss, eins og í fyrri daga hjá Israels børnum í skýstólpanum á dagin, svo eckert vondt hefir yfir oss komid. Vér bidjum þig af ollu hjarta, ad þú viljir vera oss sem einn eldstólpi á þessari tilkomandi nóttu! set þú þína heiløgu engla sem einn glóandi múr kringum vora sæng og bústad, svo nær vér sofum, sofum vér í Drottni, og nær vér vøkum, vøkum vér í Drottni. O Drottinn! gjør vel vid oss! yfirgéf oss ecki! tak ecki þína hønd frá oss! kasta oss ecki frá þínu augliti, og tak ecki frá

oss þinn heilaga anda, heldur snú þér til vor í náð, fyrir þinnar miskunar sakir! geim oss, og vert oss náðugur, fyrir Jesu Kristi skuld! O Drottinn! þú ert vort traust í allri nauð, og í øllum háskasemdum væntum vér frelsis af þér, ó Drottinn! vér medkénnum vora stóru óhlýdni, og vitum vel, ad vér høfum allt gott af oss brotid med vorum syndum! Enn, æ allra elskuligasti, góði Gud og Fadir! Vér bidjum þig af hjarta: lít ecki til vorrar miklu vondsku, heldur til þinnar stóru nádar, og þíns sonar Jesu Kristi dýru forþénustu! O Gud! lát vora naud gánga þér til hjarta! yfirgéf oss ecki svo aldeilis! skýl oss undir þínum vængjum, og lát vort tilflugt vera undir þinna vængja skugga! O Drottinn! þú Israels huggari, og rétti naudhjálpari! hugga þú á þessari nóttu vor sorgandi hjørtu, med þessari sáluhjálplegri huggun, ad þú sért sá rétti Israels vaktari, sem yfir oss vakir, hvørn aldrei syfjar. O Drottinn! vak yfir þinni kristilegri Kyrkju, lít í náð til þinnar syrgjandi Zion, ad hún í þínu ordi og þínum heilögu sacramentum aldrei sakni síns.

rétta himnatraustß, hugsvølunar og gledi. Ó Drottinn! vak ydugliga yfir Konúnginum, og Konúngsins húsi, og øllum þeim, sem frama skulu Konúngsins og landsins besta! Ó Drottinn! haf vakandi auga yfir øllum syrgjandi, fátækum og adþreyngdum! Gud hjálpi þeim hjálparlausu! Gud huggi þá huggunarlausu! Gud miskuni sig yfir allar eckjur og fødurlausa! Ó Drottinn! gleim engum, sem hafa þinnar nádar og hjálpar þørf! Gjør gódan enda á naud þeirra sorgfullu, og sýn þeim ad sídustu þína sáluhjálp! Ó Drottinn! send frid í vor landamerki! blessa vora fædu! géf þeim fátæku sitt braud til naudþurftar! lát himininn ecki halda inni sinni døgg, edur jørdina sínum gróda! Forbjód, ó Gud! dráps-englinum ad draga út sitt sverd, og lát alla ólucku vera lángt frá vorum bústødum! En sérílagi, ó nádugi Gud! þeynk um mig aumann syndara til þess góda, svo þeir, sem mig hata, megi sjá þad, og skammast sín. Bevara vora kjæru (húsbónda, kvinnu, foreldra, børn) ættíngja og vini, sem sjáldrid í þínu egin auga. Lát vort hús og heimili, góz og

formegan vera þér befalað! Enn yfir alla hluti fram, vor Guð! minstu vorrar aumu sálar, og nær henni leiðist lífið í dauðanum, þá taktu hana til þeirrar gleði, sem aldrei gétur leiðinlig orðið, í eylífu lífi! leys oss, ó Guð! þegar tíminn er. Drottinn! vér bíðum eptir þér, kom snart til vor. Drottinn! yfirgéf oss ecki, og vert ecki lángt frá oss! Drottinn! sem ert vor sáluhjálp, hraða þér til að hjálpa oss! þú, sem með Syninum og heilögnm Anda, lifir og ríkir, einn náðugur og mjög miskunsamur Guð að eylífu, amen, í Jesu nafni, amen!

**Versið:**

J dag var auga þitt, yfir mér, Drottinn kjær! allt studdi efni mitt, aukist þín dýrðin skjær! haldt ennú hendi þín, herra! í nótt á mér, augun þó myrkvist mín, minn andi vaki' í þér.

## Miðvikudags Morgunbæn.

O þú náðugi og miskunsami Guð! sem svo hjartanliga aumkast yfir alla syndara, og útskúfar aldrei neinni iðrandi sálu, sem í

tíma snýr sér! Vér fátækar, aumar manneskjur þøckum þér af øllu hjarta, ad þú svo vel hefir bevarad oss, fyrir øllu íllu, ad þú ecki hefir høndlad vid oss, eptir vorum syndum, og ecki goldid oss eptir vorum margføldum misgjørníngum. O Drottinn! þín nád er stór! Svo hár sem himininn er yfir jørdinni, svo megtug er þín miskunsemi yfir þeim, sem þig óttast, og þín medaumkan nær svo vídt, sem skýin fara: svo bidjum vér þig fyri þessa þína grunnlausu medaumkan: ad þú viljir bera umsorgun fyrir oss á þessum tilkomandi degi! O Drottinn! fyrirgéf! fyrirgéf! ad vér høfum svo ílla lifad; tilreikna oss ecki, ad vér høfum misbrúkad þína gjædsku! heldur géf oss þína nád, ad vér í dag, og á hvørjum degi megum skiljast vid allt óréttlæti og synd, og af øllu hjarta snúast svo til þín, ad vér dagliga kappkostum heilagt líferni, sterka og støduga trú, og kristiliga þolinmædi. O Drottinn! stjórna øllu voru áformi í dag, og á hvørjum degi, eptir þínum egin guddómliga vilja, og vertu sjálfur máttugur med oss, í øllum vorum verkum! O Drottinn! heyr þá

vér køllum! hjálp þá vér þreyngjumst! Bænheyr þá vér bidjum, og géf oss þinn heilaga Anda, ad vér um eckert meira bidjum af því tímanliga, enn þú med þínum gódum vilja vilt géfa og senda oss! O Drottinn! lát þitt heilaga ord alltíd vera vora hjartans gledi, prýdi og sáluhjálp! Lát þín heiløg sacramenta vera vort tilflugt móti syndinni, og vora huggun i daudanum! (Lát Konúnginn og Konúngsins hús útbreidast med luckn og farsæld! Lát Konúngsins menn og strídsher, bædi til lands og vatns, standa undir hendi þeirra Guds, svosem undir þeirra rétta sloti og verndar múr!) O Drottinn! straffa oss ecki sem vér tilvinnum, med húngri og dýrtid, strídi og blódsúthellíngu, eldsnaud og vatnsvoda edur annari ólucku! O Drottinn! kalladu ávøxtinn af jørdinni þegar tími er til! Lát oss njóta þess litla er vér høfum med fridi; og lát oss eta vort braud án háskasemda! O Drottinn! vér óttunst, ad þú hafir spent þinn boga, ad þú hafir lagt á hann daudlig skeiti, og midir til vors aumra syndara, mikillri ólucku; en, æ hjartagódi Gud og Fadir! fyrir Jesú dauda

og þínu skuld! hleyp aptur boganum, og aptradu skeitunum; straffa oss ecki í þinni reidi, og betala oss ecki í þinni brædi! Ó Drottinn! vert nádugur! vert nádugur! svo viljum vér snúa oss frá vorum syndum; ó Drottinn! vert nádugur! svo viljum vér kunngjøra þína gjædsku og prísa þína medaumkan, ad þú frelsar svo gjarnan. Ó Drottinn! reidstu ecki, ad vér tølum vid þig, vér, sem ecki erum annad enn dupt og aska! Lít þú í nád til vor, og vernda oss, med húsum og heimilum (húsbónda, kvinnu, foreldrum, børnum) ættmønnum og ástvinum, frá allri ólucku! Af djúpinu hrópum vér, Drottinn! til þín; Drottinn! heyr vora beidni, og lát þín eyru merkja hljóminn vorra bæna! Ó Drottinn! tak til nádar! tak til nádar! því viljir þú halda rétt vid oss, þá gétum vér ecki svarad þér einu ordi til þúsund, og viljir þú gánga í dóm vid oss, þá fortærumst vér í þinni grimd. Æ! ad þú enn nú vildir láta þína lisšíng vera mikla til vor, og þeinkja á þína miklu miskunsemi og medaumkan, sem alltíd hefir verid frá eylífd! Og skuli þessi dagur vera

vor daudadagur, svo líta vor augu til þín, Drottinn! Drottinn! vér vonum á þig, burtskúfa ecki vorum sálum! þú, sem með Syninum og heilögum Anda lifir og ríkir einn sannur Guð, að eylífu, amen!

Versid:

Lof, minn Guð! þitt eg þyl, þú í nótt geimdir mig, hlotnadist hvíld i vil, hót óláns duldi sig; unn þú mér enn í dag, anda þíns leidsagnar, svo allt mitt ydjulag eflist til farsældar.

## Midvikudags Kvøldbæn.

O Guð allrar gjædsku! vor hjartkjæri, gódi Fadir! vér þöckum þér af øllu hjarta, að þú á þessum umlidna degi hefir nádarsamliga verndad oss, bædi til lífs og sálar frá allri ólucku, og þaradauki gjædt oss med þinni náð og øllu gódu. Nú bidjum vér þig framvegis, að þú, fyrir sakir Jesú, viljir vera oss aumum syndurum nádugur! Fyrirgéf! fyrirgéf oss allt það, sem vér allan þennan dag hofum reitt þig til reidi med, hvørt það verid hafa þánkar, ord eda verk. Þeink ecki til

vorra grófu synda, þeink heldur til þinnar stóru náðar og miskunsemi, sem verið hefir frá eylífri tíð! Ó Drottinn! þér felum vér oss með sálum vorum og líkömum, á þessari komandi nóttu! Lát þína heilögu Engla fylkja sér kríngum oss og bevara oss! Lát Satan ekkert mega sér móti oss! vernda oss fyrir hræðilegum draumum og skaðlegum skélfíngum, svo að nær vér sofum, þá megum vér sofa í Drottni! nær vér vöknum, þá megum vér vakna í Drottni! nær vér uppríssum megum vér upprísa í Drottni! Æ vor Guð! vík ekki frá oss með þína hjálp! endurnær oss með þinni hnggun! stattu hjá oss í þrautum vorum! Hvört skulum vér flýa? hvar munum vér skjól og vernd finna, móti Satans slærðar pílum, utan hjá þér? vor Guð! Vernda oss þarfyrir undir skugga vængja þinna! Ó Drottinn! vernda þín heilögu sacrament, sem eru vorrar góðrar samvitsku sáttmáli við Guð, já, meðöl til trúarinnar, réttlætisins og sáluhjálparinnar og lát þitt heilaga orð, sem er sá rétti kraptur til sáluhjálpar, aldrei bresta í vorum helgidómi! (Vertu sjálfur, ó Guð! sem

einn brennandi múr kríngum Kónginn og allt það konúngliga hús, svo það rati ecki í neina ólucku eda plágu; rádlegg þú hans kóngligu majestatis rádi, og ífkled hans strídsmakt med styrkleikanum, svo vér allir megum med gledi og fridi búa í vorum bústødum.) O Gud! blessa vorn sveita og vort erfidi, vort braud og vora fædu, vorar hendur og vor handaverk. Gud verndi oss frá því blóduga sverdi, frá brádum dauda, frá húngursnaud, fra eldsog vatnsvoda, og øllu þvílíku íllu. O nádugi Gud! hjartagódi Fadir! vernda oss med (húsbónda, kvinnu, foreldrum, børnum) frændum og vinum og øllu því, sem vér kjært høfum, á þessari tilkomandi nóttu, svosem sjáaldrid í þínu egin auga vakta vort hús og heimili, sem sá Israels váktarinn, sem hvørki sefur né dottar, frá allri yfirhángandi plágu og ólucku! O Drottinn! fyrir Jesú dauda skuld, hugga alla þá, sem þinnar huggunar þurfa! hjálpa øllum þeim, sem þinnar hjálpar þurfa! rádlegg þú øllum þeim, sem þinna ráda þurfa; og ad sídustu, lát þína nád vara og þinn krapt fullkomnast í veikleika allra

þinna krossberara! O Drottinn! bænheyr oss, og hvørt eitt Guðs barn, sem á þig kallar, og lát oss aldrei vanta þína hjálp í bágindunum! Dagurinn er umliðinn, og eckert íllt hefur yfir oss komið; svo þøckum vér þér þarfyrir, ó Guð! af øllu hjarta, fyrir allt gott, og biðjum inniliga, að þú sjálfur viljir á tilkomandi nóttu vera vor háa vernd, svo vér hvíla megum undir þíns almættis vængja skugga. Vér biðjum þig, eins og eitt barn sinn elskuligan føður, yfirgéf oss ecki, og vert ecki lángt frá oss! Drottinn! sem ert vor sáluhjálp, flýt þér að hjálpa oss! O Drottinn! fyrirgéf oss allrar vorar blóðugar syndir, og fyri Jesú Kristí skuld, náðarsamliga afstýr eður og føðurliga mýk úr því þúnga yfirhángandi hefndar-straffi, sem þitt rettlæti ógnar oss með, og vér, því miður, høfum verðskuldað með vorum margføldu yfirtroðslum; og að síðustu, þegar vor dauðastund er fyrir hendi, þá géf þú oss sáluhjálpliga burtfør af þessum vonda heimi, fyrir Jesum Kristum, sem með þér, ó Faðir! og heiløgum Anda, lifir og ríkir, einn sannur Guð, að eylífu, amen!

Versid:

Herra, sem hefir mér, hjálpad í dag svo vel, ad aungar áráser, óláns mér gjørdu kvøl, géfdu mér góda nátt, grandlaus svo hvílist eg, tak mig í sæta sátt, sýndu þinn líknarveg.

## Fimtudags Morgunbæn.

O vor himneski Gud og Fadir! frá hvørjum allar gódar og fullkomnar gjafir koma! Vér þøckum þér af innsta hjartans grunni, fyrir allt gott, sem þú hefir audsýnt oss, frá vorum fædíngardegi allt til þessa dags, bædi andligt og líkamligt; þínir velgjørníngar eru margir, skyldum vér telja þá, yrdu þeir fleiri enn sandur hafsins; en nógsamliga ad þacka þér fyrir þá megnum vér ecki; því, Drottinn! þú veitst sjálfur, ad vér erum miklu minni, enn allar þær miskunsemdir og medaumkan, sem þú hefir sýnt oss, og yfir allt þetta, hefir þú svo nádarsamliga verndad oss á þessari umlidinni nóttu; þú hefir adgjætt oss, eins og augastein í þínu egin auga, og þú hefir látid oss óhulta sofa undir skugga vængja

þinna; þarfyrir lofum vér þína stóru gjæðsku, og þøckum þinni grunlausu miskunsemi! Vorar sálir lofi Drottinn, og allt hvað í oss er, hans heilaga nafn! Vorar sálir lofi Drottinn, og gleymi aungu af því góða, sem hann hefir gjørt oss, hann er sá, sem fyrirgéfur oss vorar syndir, og bætir alla vora bresti. Nú bidjum vér þína guddómliga gjæðsku, af allri sál og hjarta, að þú aptur á þessum degi viljir stjórna oss með þínum verðuga heilaga Anda! O Gud! lát oss eckert taka oss fyri, tala edur hugleiða, utan það, sem þéna kann þínu stóra guddómliga nafni til dýrdar, og oss sjálfum til sáluhjálpar. O Gud! varðveit þann litla trúarinnar neista í voru hjarta, að hann aldrei slokni, í dag edur alla vora æfidaga. Gud hjálpi oss, svo vér af hjarta mættum fyrirgéfa vorum náúnga hans bresti og yfirsjónir, eins og vér óskum, að Gud vilji fyrirgéfa oss vorar mørgu og grófu syndir! Gud varðveiti oss frá øllum óhreinleik, órettlæti, eydum og svardøgum, lygum og baktali, samt øllum ødrum syndum, hvarmed styggjast kynni hans guddómliga nafn!

Sjá, vor Gud! á þessum degi felum vér oss þér med sálum og líkømum; þér befølum vér vorar hugsanir, ord og gjørdir! hvørt sem vér gaungum eda støndum, sitjum eda liggjum, þá lát þú þína nád vera oss fylgjandi! lát þinn heilaga Anda leida oss! lát Jesú dauda hugga og hugsvala oss! O Drottinn! lát þitt heilaga ord og þín háverdugu sacrament gledja oss, og innsigla sáluhjálparinnar trú og traust í allra vor hjørtu! Gud haldi alltíd sinni hægri hønd til verndar yfir Kongínginum, og allri þeirri konúngligu ætt og adli! Gud vardveiti øll andlig og veraldlig yfirvøld, svo þau ekkert íllt hendi til lífs né sálar. Gud! hugsa ecki af þeim fátæku! Heyr þá vesælu! Slá ecki hendi af eckjunum, og gleym ecki þeim fødurlausa! Gud verndi vor hús og heimili frá þeim skadliga eldibrandi, og lát aldrei djøfulinn vísa hendi þjófanna á vora bústadi! Gud afstýri fødurliga edur og mýki nádarsamliga allar yfirhángandi plágur! O Drottinn! án þín megnum vér enkis, og nær vér høfum þig alleina, þá skeitum vér hvørki um himin né jørd; því þó jafnvel

vort hjarta ætladi ad ørmagnast í voru lífi, þá nægir oss það, að Guð er vort hlutskipti og vort hjartans bjarg eylífliga, svo miskuna þig því, ó Drottinn! yfir oss; útskúfa oss ecki frá þínu augliti, og tak alldrei þinn heilaga Anda frá oss! Gack ecki í dóm við oss eptir vorum stórkostligu syndum; heldur hugsa í dag og alla tíma til þinnar stóru náðar, sem frá eylífð hefir verið, og á Jesú Kristí heiløgu forþénustu, með hvørri hann hefur oss svo dýrt endurkeypt, og sefað þína réttferðugu reiði. O Guð! vernda þú þennan dag og alla tíma vora kjæru (húsbónda, kvinnu, foreldra, børn) ættíngja og ástvini, og vertu framvegis þeirra rétti naudhjálpari, þeirra tilflugt og vernd við øllum háska og ólucku; og nær vér gaungum í gégnum daudans myrku dali, svo leyð þú oss með þinni hægri hendi, svo vér þurfum ecki að óttast neina ólucku. Lát þennan þánka vera vorn sídasta þánka! lát þetta andvarp vera vort sídasta andvarp! Drottinn! í þínar hendur fel eg minn anda! þú hefir endurleist mig, Drotinn! þú trúfasti Guð! þú, sem med Syninum og heiløgum

Anda lifir og ríkir, einn sannur Gud ad eylífu, amen!

Versid:

Í nótt þín edla nád, ó Drotinn! gjætti mín, ólukkan ei fékk hrjád, útbreidist dýrdin þín! miskuna mér í dag, mitt áform stadfest þú, því allt mitt ydjulag, í þér eg byrja nú.

## Fimtadags Kvøldbæn.

Æ herra Jesú Kriste! þú lifandi Guds Son! vér kvørtum og medkénnum fyrir þér, af vorum hjartans grunni, ad vér ennnú á þessum umlidna degi, því midur, høfum verid þínum heiløgum bodum óhlýdugir; vér høfum ecki óttast og elskad þig, sem skyldi; vér høfum vitad þinn vilja, og ecki hegdad oss þareptir; svo vér høfum, Gud nádi! litils vyrdt þitt saklausa blód, med hvørju þú svo dýrt hefir endurleyst oss frá eylífum dauda og fordæmíngu. Ó Jesú! þú ert rettlátur, enn vér skømmunst vor í vorum hjørtum, ad vér høfum lifad allt of ógudliga; vorar syndir eru ordnar óteljandi, eins og sandurinn í sjón=

um, þær gánga yfir vort höfuð, og eru vorðnar þúngar í vorri samvitsku eins og þúng byrði. Én, æ Jesú! þú ert Guð allrar miskunsemdar og faðir allrar huggunar, þú ert náðugur og þolinmóður, og himin og jörð eru full af þinni góðgyrni; svo miskuna þig þessvegna yfir oss, eptir þinni stóru miskunsemi! útslétt vorar syndir, eptir þinni stóru gjæðsku! og þar vér höfum eckert að reiða oss uppá, með hvörju vér standast kunnum á degi dómsins, utan þinn egin dýrmæta dauða og pínu; svo lát oss, ó Jesú! njóta góðs af þinni fullkomnu fullnægjugjörð og næga betalíngi, svo vér megum standast fyrir Guðs augliti, og ecki til skammar verða eylífliga. Vertu, ó Jesú! vor talsmaður á vorri síðustu stund, og náðugur dómari á þeim efsta dómsins degi. Vertu vor aðstoð og hjálpari í allri vorri nauð! Lát oss í þínum undum og sárum alltíð finna skjól móti syndinni, djöflinum og helvítis kvölum; og sérilagi, hald þinni hægri hendi yfir oss á þessari tilkomandi nóttu! Lat oss í nótt hafa frið fyrir Satan, og í þínum sárum finna lækníng við

øllum vorum blódugum syndum! O Gud! vardveit vora kjæru (húsbónda, kvinnu, foreldra og børn) ættíngja og ástvini frá øllu íllu, sem þá kynni ad hitta, annadhvørt á líkama edur sál! Gud verndi vort hús og heimili, og allt þad oss tilheyrir, frá eldibrandi, þjófahendi og øllu ødru íllu. Vardveit oss frá íllum og skadligum draumum, svo vér ecki jafnvel sofandi syndgum á móti þér. O herra Jesú! þitt heilaga ord, sem þú hefir byrt oss frá þíns fødurs skauti, og þín heiløgu sacrament, vyrdstu ad bevara medal vor, ómbreitt, allt til heimsins enda, þínu heilaga nafni til dýrdar, enn oss þínum børnum til eylífrar sáluhjálpar. (Vorn allranádugasta herra og Konúng, med øllu því konúngliga arfahúsi, og øllu hans rádi, vardveit þú, ó Gud! eins og sjáaldrid í þínu égin auga!) O Drottinn! géf frid um vora daga, vardveit oss frá því blóduga stridi, frá þeim hastarliga dauda, og øllu íllu! vertu huggun þeirra sjúku! vertu fadir þeirra fødurlausa! vertu forsvar ecknanna! vertu verndari fátækra, og forsorgari allra manna! Herra Jesú! í

þínu nafni leggjum vér oss til hvíldar, en lát vor hjørtu alljafnt vaka til þín, svo vér einninn sofandi megum um þig hugsa. Og lát oss aptur á morgun glaða uppstanda, til að lofa og prísa þitt heilaga nafn. O Drottinn! þér tilheyrir lofgiørð, prís og æra; því undir þinni vernd alleina høfum vér á þessum degi svo náðarsamliga varðveittir verið frá øllu íllu. Æ Drottinn! haf framvegis vakandi auga yfir oss, á þessari tilkomandi nóttu, fyrir vors endurlausnara Jesú Kristí sakir, vertu náðugur, og fyrirgéf vorar misgjørðir. Fordjarfa oss ekki, og lát oss á þessari nóttu ekki erta þig til reiði; enn géf oss náðugan tilbúníng, að vér á vorri síðustu stundu megum með þeim heilaga Stephano sjá himnana opna fyrir oss, og svoleiðis með gleði og þakklæti gánga inní eylíft líf. Guð heyri og gjøri það, fyrir Jesum Kristum alleina, amen! í Jesú nafni, amen!

Versið:

Guð minn gøfgaður sé, gjæðsku fyrir og náð,
í dag sem eg reynde, allt mitt hann bætti ráð. Æ

Drottinn! ad mér 'gá, enn í nótt, ró og hægd, veit mér, en výl og þrá, vendi burt og óþægd.

## Föstudags Morgunbæn.

Himneski Gud! hjartkjæri Fadir! þitt heilaga nafn viljum vér alltíd prísa; árla viljum vér lofa þig, og á kvøldin ecki afláta ad þacka þínu nafni: lofud sé þín grunnlausa gjædska, og prísud þín fødurlig medaumkan, ad þú hefir verndad oss á þessari hættulegu nóttu frá øllu íllu, og vardveitt oss frá allri ólucku; þú hefir látid oss trúliga og rósamliga sofa undir þinna vængja skugga. Sjá, vor Gud! nú befølum vér þér í dag vora líkami og sálir (vorn kjæra hússbónda, kvinnu, foreldra og børn) ættíngja og vini, góz og formegan, og allt þad sem vér høfum medtekid af þér, í þínar fødurhendur. Sjá! hér erum vér, gjør vid oss, vor Gud! sem þér best synist; viljir þú jafnvel slá oss í hel, þá viljum vér þó vona; og þó vort hjarta uppvisni í voru lífi, þá nægir oss þad, ad þú, ó Gud! ert vort hlutskipti og vort hjartans bjarg eylífliga.

Lifum vér, svo lifum vér Drottni; deyum vér, svo deyum vér Drottni; og hvört vér lifum eda deyum, hvört oss vill til mótlæti eda medlæti, sorg eda gledi, þá nægir oss það, ad vér tilheyrum Drottni; enn samt, vor nádugi Gud! sem ert inniliga medaumkunarsamur, og einn miskunari, bidjum vér þig af øllu hjarta, ad þú, eins og nádugur Fadir, í dag viljir vernda oss, og allt vort, frá Djöfulsins svikum og valdi, frá synd og sorg, og øllu ødru íllu. O Drottinn! lát þinn heilaga Anda stjórna oss! Lát þína heilögu engla vardveita oss! Lát Jesú þíns sonar blóduga dauda og pínu mæla fyri oss! Vertu sjálfur med oss, vor Gud! í dag og á hvörjum degi í voru kalli og embætti! Blessa vors andlitis sveita! Géf luckn í vorum handaverkum! Stjórna vorri túngu frá allri ónytju mælgi og tali, frá eydum og svardøgum, og rógburdi um náúngann! hald vorum hjørtum frá íllum þaunkum, frá hatri og reidi, ágyrnd og grádugheitum! hald øllum vorum limum frá syndsamligum verkum og íllum athøfnum, svo vér brúka megum þennann sáluhjálpardag

til dýrðar þínu nafni, og tøkum ecki forgéfins við þinni náð. O Drottinn! vorar sálir bíða eptir þér, og vér vonum á þitt orð; vorar sálir passa nppá þína náð, nákvæmligar en vaktarinn, sem inniliga væntir morgunsins. Drottinn! miskuna þig yfir oss, blessa oss, og lát þína ásjónu lýsa yfir oss! Uppfyll oss árla með þinni náð, svo vér megum gledja-oss í þínum anda, alla vora lífdaga. Æ vor Guð! lát aunga tímanliga muni, aunga vellyst, aunga fánita æru draga vor hjørtu frá þér á þessum tilkomandi degi. O Drottinn! lát þína náð alltíð vera og stadnæmast yfir oss, með þínu heilaga orði og þínum háverdugu sacramentum! Lát þína luckn frama Kóngsins hús, lønd og ríki með friði og rósemd! O Guð! lít í náð í dag og á hvørjum degi til allra fátækra og nauðlíðandi! vertu sjálfur allra ángradra, eckna og føðurlausra forsvar og hjálpari, og aumka þig náðarsamliga yfir alla þá, sem þinnar náðar þurfa. O Drottinn! stattu með oss móti því vonda! gack til vor móti íllgjørðamønnunum! vakta oss fyrir þeim blóðskuld-

ugu! mýk allt yfirhángandi straff og ólucku, sem þú ógnar oss með, og vér svo mjøg høfum forskuldað með vorum stórbrotum. Og nær vor sídasta stund er fyri hendi, svo augun bresta, heyrnin breytist, og málið dvínar, þá lát þinn heilaga Anda géfa oss fulla vissu í vor hjørtu, að vér høfum einn náðugann Guð, og órækt vitni í vorri samvitsku að vér séum Guðs børn, Guðs erfingjar, og Jesú samarfar til himnaríkis og þess eylífa lífs! það heyri og gjøri, ó Guð Faðir! sem með Syninum, í heilags Anda einíngu, lifir og ríkir, einn sannur Guð, að eylífu, amen!

**Versið:**

J nótt eg ennþá féck, allgóða lúa fró, mins Drottins mildin þeck, mér lénti værð og ró; ó Guð! mér géf þú enn góðan dag byrjaðan, þinn vilja þú mér kénn, þverra lát synda bann!

## Føstudags Kvøldbæn.

Líknsami og þolinmóði og mjøg miskunsami Guð! sem líknar øllum þínum handaverkum; vér þøckum þér af innsta hjartans

grunni fyrir þína miklu føðurligu umhyggju, sem þú ber fyrir oss aumum syndurum, þar þú í dag, og á hvørjum degi, frá vorum fyrsta fæðíngartíma, hefur svo náðarsamliga varðveitt oss, frá svo miklu íllu, sem oss hefði kunnað henda, bæði á sálu og líkama. Ó Drottinn! lít ecki til vorra grófu synda, með hvørjum vér høfum allaun daginn í gégn þér á móti gjørt; heldur lát þær útsléttar vera fyri Jesú allrahelgasta blóð, og minstu þeirra aldrei framar að eylífu! Ó Drottinn! þú ert sá heilagi Guð, og veitst að vér ecki alleina erum gétnir í syndinni, heldur og einnin høfum alla vora lífdaga lifað í syndunum, og yfirtroðið þín heiløgu boðorð, með syndsamligum lýstum og gyrndum, með vondum þaunkum, skammarligum orðum, og ókristiligum gjørðum; og með þessu høfum vér verðskuldað ecki alleina alla tímanliga ólucku, heldur einnegin eylífa helvítis pínu og fordæmíng! En, æ Drottinn! straffa oss ecki í þinni reiði! heimsæk oss ecki á þessari nóttu í þinni bræði! Vér liggjum fyrir þínum fótum með sundurknosuðum hjørtum, og angruð-

um sálum. Æ Guð! vertu oss aumum synd-
urum, fyrir Jesú blóðuga dauða skuld, náð-
ugur; vér höfum syndgað! vér höfum synd-
gað! Enn Drottinn! fyrirgéf! fyrirgéf oss
það, og vert oss náðugur! Lát aunga ólukku
fyrihitta oss, né vora, hvört sem er til sálar
eða líkama, á þessari tilkomandi myrku nótt,
heldur vernda oss náðarsamliga, með (húss-
bónda, kvinnu, foreldrum, börnum) húsum og
heimili, frændum og vinum, með þinni guð-
dómligri varatekt; og lát vort hæli og vora
hjálp vera undir þinna vængja skugga! Ó
Drottinn! eins og hjörturinn kallar eptir ferskú
vatni, svo kalla vorar sálir eptir Guði, eptir
þér, þú lifandi Guð! þángaðtil þú gjörir enda
á vorri eymd. Nær vorar sálir eru sorg-
bitnar í oss, þá hugsum vér til þín, að þú
hjálpar svo gjarnan; og ef vér höfum ekki
trú á að sjá Herrans góða í þeim lifandi lönd-
um, þá mættum vér géfa oss upp. Drott-
inn! varðveit þitt heilaga orð hreint og rétt,
og þín dýrmætu sacrament í þínum helgi-
dómi hjá oss óumbreytt, allt til heimsins
enda, svo vér alltíð megum í vorum hjört-

um innsiglast med trú og trausti sáluhjálparinnar! Varðveit, ó Guð! vorn allranáðugasta Arfaherra og Konúng með øllu því, sem honum er kjært, frá allri ólucku! O Drottinn! lát Kónginum gánga vel, svo gíngur oss líka vel. O Guð! afstýr náðarsamliga, edur mýk føðurliga allt yfirhángandi verdskuldað straff og plágur! O Guð! send oss eptir þínum vilja allt óforþént gott! géf luccu og blessan, géf frið og rósemi, géf heilsu og heilbrygði, géf brauð og fæðu! O Drottinn! klæð þann nakta, fæð þann húngraða, svala þeim þyrsta! Lát ecknanna og føðurleysíngjanna bæn þreyngja sér í gégnum skýin, og ecki linna fyrr enn hún kémst fram, og finnur bænheyrslu hjá þínum stól og hátrón. O Guð! miskuna þig yfir allar manneskjur, og hald náðugu auga yfir oss, þínum fátækum børnum, mót allri hættu og ólucku! O Drottinn! lát oss sofa róliga! lát oss vakna glaðliga! Lát þína heilaga engla vera vora hlífð og vernd móti djøflinum og allri ólucku! og skuli þessi nótt vera vor dauða og skilnaðar nótt (því vér vitum ecki hvørt Herr-

ann vill koma ad kvøldi, edur ad morgni, edur um midnætti, edur nær haninn galar). O Gud! svo lát oss hafa vora trúarlampa tendrada, svo vér megum inngánga med Jesú, vorum sálar brudguma, í brúdarsalinn, til Guds barna safnadar og margra þúsunda heilagr aengla, til ad njóta þar yfirfljótanligrar gledi og dýrdar, sem er hjá Guds hægri hendi: þá gledi géfi Gud Fadir oss øllum Guds børnum af nád, fyrir Jesum Kristum vorn Drottinn, sem med honum og heiløgum Anda lifir og ríkir, einn sannur Gud, hátt lofadur ad eylífu, amen!

Versid:

O Gud! sem géfur mér, gjæda dags enda sjá, og ólán̄s øllum her, afstýrir mér í frá; lát mig um myrka nátt, mædulaus hvílu kjør, hreppa, en hjúkra Hátt, Herra minn! gjædsku ør.

## Laugardags Morgunbæn.

Vorar sálir lofi Drottinn, og allt hvad í oss er, lofi hans heilaga nafn! Vor sál

lofa Drottinn, og gleym aldrei því góða, sem hann hefur gjört þér! hann er sá, sem læknar þínar syndir, og græðir þína bresti; hann kórónar þig með náð og miskunsemi; vorar sálir lofi Drottinn, að hann svo náðarsamliga hefir varðveitt oss með sálum og líkömum, á þessari umliðinni nóttu, frá allri óluckn! O Drottinn! svosem þitt nafn er, svo er þín dýrð í øllum løndum; svo víðt sem austrið er frá vestrinu, er þín miskunsemi útbreidd yfir øll þín handaverk. Vér biðjum þig þessvegna af øllu hjarta, að þú á þessari tilkomandi nótt ecki takir frá oss þína náð og hjálp. Æ Guð! þú ert vort einasta traust og styrkur; þú ert vor hjálpari í allri þeirri nauð, sem yfir oss kann að falla; svo byrg því ecki þitt andlit fyrir oss, og burtkasta oss ecki í þinni reiði! O Guð! vertu oss náðugur, því vorar sálir reiða sig uppá þig, og undir þinna vængja skugga høfum vér vort hæli, þángað til óluckan er framhjá komin. Guð sendi oss hjálp af himnum ofan! Stjórna oss, ó Jesú! með þínum verðuga heilaga Anda, að vér á þessum degi eckert þenkjum, tølum, né gjør-

um, utan það, sem kann vera til dýrðar þínu nafni! Afstýr þeim svikfama djøfli, svo hann ecki í neinn máta tæli oss! Varðveit vora túngu, svo hún ecki bølvi vorum náúnga, né baknagi hann! Varðveit vorar høndur frá blóðskuld, og vor hjørtu frá óréttlæti! Leið oss á þínum vegum! Kénn oss þinn stíg! Uppbýrja, framkvæm og fullkomna alltíð það góða í oss, allt til Jesú Kristí dags! Sjá! vér erum af náttúrunni reiðinnar børn, og vorra þánka uppáfyndíngar eru vondar á hvørjum degi; vér vitum, að í oss, það er í voru holdi, býr eckert gott, því viljinn er að sønnu til, en að fullkomna það góða, finnum vér ecki; það góða, vér viljum gjøra, það gjørum vér ecki (svo opt og gjarnan sem vér vildum og ættum) það vonda, sem vér ecki viljum gjøra, það gjørum vér allt ofmjøg; vorar syndir eru fleiri en sandurinn í sjónum; vorir misgjørníngar gánga oss yfir høfuð, og eru orðnir oss þúngir eins og þúng byrði. En, æ vor náðugi Guð og Faðir! þigg þú fyrir oss, Jesú, þíns Sonar verðskuldan og forþénustu, sem svo dýra fullnustu hefir gjørt fyrir

ofs! Hjá ofs finnur þú eckert utan ángrad hjarta; lát þú þad offrid þóknast þér, og finna nád fyrir þínu augliti. O Gud! tak aldrei þitt sáluhjálpliga ord og þau heilögu sacrament frá ofs, í þinni reidi, svo vorar sálir fordæmist ecki til helvítis! O Gud! lát enga ólucku, né hásKasemi fyrirhitta Kóngsins hús, og lát allt íllt, strid og blódsúthellíngu, húngur og dýrtíd, eldsnaud og annan háska, vera lángt frá vorum landamerkjum! O Drottinn! styrk þá med þinni nádarhendi, sem vilja þinni kyrkju, og hennar þénurum vel; og lát aunga ólucku yfir þá koma, sem styrkja vilja málefni þeirra fátæku, ecknanna og þeirra födurlausu! O Gud! hjálpa nádarsamliga öllum syrgjandi, öllum veikum og óhraustum, öllum fátækum og vesælum! O Gud! lát aunga ólucku koma yfir ofs, né ættíngja og vini, hús og heimili, góts og formegan! Æ kjæri Fadir! blessa vora köllun og vort erfidi, vora næríng og atvinnu, og allt, sem vér egum ad hafa gagn og gjædi af! Gud hjálpi ofs til fastrar og stödugrar trúar, og gódrar samvitsku! Gud vardveiti ofs frá óánægju og

óréttlæti! og að síðustu, nær vér skulum gánga veg allrar veraldar, svo lát, ó Drottinn! oss, þína þénara, fara í friði, eins og þú hefir sagt; svo vor augu megi sjá það hjálpræði, sem þú af himnum tilbúið hefir øllum þjóðum, sem trúa á þinn Son, Jesum Kristum, hvor með þér og heiløgum Anda lifir og ríkir, einn sannur Guð, eylífliga, amen!

Versið:

Líta eg líosan má, Laugardag þennan enn;
þín vernd mín vyrdtist gá, vegligust Eining þrenn!
hald ecki hendi af mér, hjálp send í dag og náð,
svo verk mín þóknist þér, því veittu styrk og ráð!

## Laugardags Kvøldbæn.

Heilagi, stóri, almáttugi Guð! Faðir, Sonur og heilagur Andi, þú eylífi Guð! vér þøkkum þér af øllu hjarta, að þú hefir svovel varðveitt oss, á þessum umliðna degi, og alla þessa viku, frá øllum háska og skaða, bæði til lífs og sálar! Nu biðjum vér þig, að þú framvegis viljir bera umhyggja fyrir oss, á

þessari tilkomandi nóttu, svo vér ekki føllum í syndir, né neina adra ólukku! O Drottinn! þegar vor augu sofa, þá vak þú yfir oss, eins og sá rétti Ísraels vaktari, sem ekki sefur, og hvørn ekki syfjar! Þetta er hin sídasta nótt af vikunni, og vér høfum vel verdskuldad alla þessa viku, ad þetta verdi hin sídasta nótt nádar þinnar vid oss. Enn, æ nádugi Fadir og líknsami Gud! vertu oss ekki svo reidur, ad þú hastarliga burtsviptir oss í þinni grimd! O Drottinn! gleim oss ekki svo aldeilis! Tillyk ekki med reidi þína medaumkan! Lát ekki þína stóru miskunsemi vid oss svo fljótt taka enda! útkasta oss ekki frá þínu augliti, og tak ekki þinn heilaga Anda frá oss! En, egi þad fortakslaust svo ad vera, vor Gud! ad þú viljir straffa oss, fyrir svo mørg stórbrot, med hvørjum vér alla þessa viku, og alla vora æfidaga þig svo mjøg módgad høfum, ó, svo straffa í nád og med máta! Þú alleinn ert sá, sem géfur krapta þeim þreittu, og eykur styrkleik þeirra ørmognudu, ó, svo géf oss einnig krapt, og styrk oss héreptir dag frá degi, svo vér verdum frómir og lifum bet-

ur! Æ Drottinn! vertu oss ecki reidur eylíf-
liga, og lát ecki á þessari nóttu, né nockurn-
tíma, þína ónád hitta oss í vorum syndum!
Drottinn! tak oss ecki í burt ad hálfnudum
vorum døgum! O Gud! hald þínu ordi og
þínum dýrmætu sacramentum vid lídi hjá oss
eylífliga, fyrir utan falskan lærdóm, og ránga
Gudsþjónustu, svo vér og allir ydrandi synd-
arar, alltíd þarí finna megum krapt til sálu-
hjálpar, og ylm líffins til líffins! O Drott-
inn! forsvara Konúnginn og landid, med øll-
um yfirvøldum, andligrar og veraldligrar stétt-
ar, fyrir allri ólucku! Gud géfi oss frid og
rósemi! Gud unni oss heilsu og heilbrygdis!
Gud blessi nádarsamliga vora akra og eng-
jar, vorar karsir og afgangsleysar! Drottinn
blessi og vardveiti oss! Drottinn láti sitt
auglit lýsa yfir oss, og sé oss nádugur! Drott-
inn upplipti sínu augliti yfir oss og géfi oss
frid! O Gud! þú hefir spent þinn boga, og
lagt á hann daudlig skeiti, og siktar á oss;
en fyri Jesú dauda skuld, hald ennþá lítid
aptur, svo þad blóduga sverd ecki fortæri oss,
og pestilentía og brádur daudi ecki eydileggi

oss! Ó Drottinn! höndla ecki við oss eptir vorum slæmu syndum, og gjald oss ecki eptir vorum grófu misgjørningum! Lát oss finna náð fyri þínum augum, og sjá þó, að þetta fólk er þitt fólk! Ó Drottinn! vér játum þér vora misgjørnínga, og ángrumst af vorum syndum; þú þeckir vora hjartans vondsku, og allar vorar misgjørðir eru þér vitanligar; þessvegna liggjum vér nú með óvyrðíngu fyrir þínum fótum, og biðjum um náð hjá þeim, sem dæmir oss. Ó Drottinn! vertu oss (vorum húsbónda, kvinnu, foreldrum, børnum) vorum ættingjum og vinum, og øllum mønnum náðugur! vakta oss, með húsum og heimili, góðsi og formegan, fyrir elðibrandi, vatnsvoða og þjófahendi og øllu øðru íllu, og lát aunga ólucku koma innan vorra dyra! Ó Drottinn! kénn oss að telja vora daga, svo vér alltíð megum bíða eptir vorri skilnaðarstund, og vænta í voninni eptir Guðs barna dýrðligu frelsi! Æ Drottinn Jesú! kom, kom, kom náðugur, kom snarliga! í þínar hendur felum vér bæði líf og anda! Þú hefir endurleyst oss, Drottinn! þú trúfasti Guð! amen!

Versid:

Lof sé þér, gódi Gud! gjæfu og láns fyrir þag, sem hjálp þín hábléssud, hreppa lét mig í dag! lát í nótt lýsa hér, liós þitt, en hendin mæt hlýfi og hlynni' ad mér, hvíldin þá verdur sæt.

---

## Daglig Morgun- og Kvøld-bæn.

O þú miskunsami Gud! hjartagódi himneski Fadir! hversu stór er þín elska? hversu ógrípanleg er þín medaumkan! þú þeynkir alltíd til mín; þú ber umhyggju fyrir mér; þú heyrir mína bæn; þú telur mín tár, og sér mínar andvarpanir; þú veitst mína naud, og hjálpar mér í allri minni sorg. Þú hefir undarliga skapad mig í minnar módur lífi; þú hefir í skírninni gjørt mig þína eign, og þú kallar mig á hvørjum degi í þínu ordi til sáluhjálpar. Þinn heilagi Andi verkar ángur og trega, trú, von, kjærleika og þolinmædi í mínu hjarta, hann kénnir mér ad andvarpa; hann hjálpar mér ad bidja; já, sjálfur gengur fram fyrir mig, med óaflátanligum andvørpunum.

Og umfram allt þetta, minn Guð! hefur þú gjört mér svo mikið gott, frá mínum fyrsta fæðíngartíma, allt til þessarar stundar: þínir velgjörníngar eru margir, þeirra summur eru stórar; skuli eg telja þá, svo eru þeir fleiri enn sandurinn í sjónum; þessvegna þakka eg þér, Guð! af alls míns hjartans grunni! mín sála lofi Drottinn, og allt það í mér er lofi hans heilaga nafn! mín sála lofi Drottinn! og gleimi ekki neinu af øllu því góða, sem hann hefir gjört mér; sá, sem fyrirgéfur mér allar mínar syndir og læknar alla mína bresti; sá, sem endurleysir mitt líf frá fordjørfuninni og krónar mig með miskunsemi og meðaumkan. Nú bið eg framvegis þína guðdómliga gjæðsku, að þú ennnú á þessum degi (þessari nóttu) viljir vernda mig frá allri ólucku, hættu og skaða, bæði til lífs og sálar! O Guð! varðveit mitt hjarta frá hatri og reiði, frá syndugum þaunkum og vondum gyrndum! Guð varðveiti mín augu frá óhreinleik og lauslæti! Guð stýri minni túngu frá skvaldri og baktali, frá bølvi og beiskleika, frá lýgi og ósóma! Guð stjórni mínum høndum

og fótum og øllum mínum limum frá synd og yfirtrodslum, svo eg í dag (í nótt) og alla tíma megi vera óefadur um Guds nád og alltíd í stødugri trú (sem aldrei gétur stadist án míns hjartans ángurs, og míns lifernis betrunar í Jesú forþénustu) bidji Gud um sáluhjálp. O Gud! blessa mig og alla mína á þessum tilkomandi degi (þessari nóttu) svo vér í Jesú allrahelgustu undum og sárum megum finna skjól og vernd móti syndinni, daudanum, Djøflinum og helvíti og øllum mønnum, sem setja sig móti oss. Gud vardveiti sitt heilaga ord, og þau háverdugu sacrament án allra falskra lærdóma og ránglar Guds-þjónustu allt til heimsins enda! Gud gjøri Kóngsins nafn med lukku og blessan stórt á jørdunni, og ad sídustu króni hann med sáluhjálp í himninum! Gud láti enga ólukku hitta Kóngsins hús eylífliga! Gud haldi sjálfur sinni vernd yfir øllum Kóngsins mønnum, med øllu andligu og veraldligu yfirvaldi, svo þeir alla tíma megi auka Kóngsins gagn og landsins besta sér sjálfum til sáluhjálpar! O Gud! géf oss frid og rósemi, heilbrygdi og

heilsu, lucku og blessan, ánægju og þolinmæði! Ó Drottinn! gef þeim fátæka, nær hann bidur! hugga þann sorgandi nær hann lídur! Slá aldrei hendinni af eckjum og føðurlausum! Hjálpa øllum, sem eru í naud og hjálparlausir! Fyrirgef vorum óvinum þeirra vondsku athafnir! vertu nádugur øllum ydrandi og umvend øllum ógudligum! Ó Gud! aumka þig yfir allar manneskjur, og vert mér aumum syndara, á þessum tilkomandi degi (þessari nótt) og annars alltíd nádugur. Lát mig eckert hugsa, tala edur gjøra, sem mótstædiligt er þinni dýrd og minni sáluhjálp. Svo ad ef eg lifi, þá megi eg lifa Drottni, ef eg dey, þá megi eg deya í Drottni, og hvort eg lifi eda dey, þá megi eg heyra Drottni til, og eg alltíd megi viss vera um einn nádugann Gud, í himninum, og sáluhjálplega burtfør af heiminum. Þér sé dýrd þú stóri, almáttugi Gud! fyrir Jesum Kristum, þinn Son, sem med þér og heiløgum Anda lifir og ríkir, einn sannur Gud, ad eylífu, amen!

# II.

## Viku Kvöld = Bænir.

### Sunnudags Kvøldbæn.

Vertu hjá oss, Herra! því ad kvølda tekur og á daginn lídur! O þú lifandi, almáttugi Gud! hvørsu ógrípanlig eru þín verk? hvad ómælilig er þín gjædska, sem þú audsýnir mannanna børnum? segja megum vér af nád og sannleika, elsku og miskunsemi, þar þú umlidinn dag hefur sýnt oss svo margt gott til lífs og sálar; þú hefur mettad vorar sálir med lífsins braudi, og géfid oss ad drecka af þeirri lifandi uppsprettu. Þitt ord hefur verid vorum munni sætara enn hunáng og hunángseimur! Æ lát þitt ord alla vora daga vera ljós á vorum vegum, svo vér eptir því framgaungum, þá munum vér ei rasa né missa þína nád. Þú hefur líka verid vor hjálpari, vor hjástod í líkamligann máta, svo vér høfum nú nád ad lifa med heilsu, fram á þettad

kvøld; vér erum ecki verdir allar þeirrar miskunar, sem þú hefur audsýnt oss. Þegar vorir limir leggja sig nú til hvíldar, svo kom, vor vernd! oss til hlidar, haf gát á oss, og innlæs oss þinni varateckt; lát oss sífeldliga vera ljós í Drottni, og eckert samfélag hafa vid ófrjóssøm verk myrkranna; lát þitt ord, sem vér høfum heyrt og lært, þróast í oss hér eptir, sem heilagt sædi, hvørs ávexti sjá megi á voru líferni, í rádvendni, Guds ótta, í því ad vér frá heiminum deyum, en géfum oss alla þér; vertu vor hlífd og skuggi mót øllum hita-og freistíngum, og móti Satans eldligu pílum. Drottinn er vort ljós og hjálpræði; hvad skyldum vér óttast? Drottinn er styrkur vors lífs; fyrir hvørju skyldum vér skélfast? snú eldi, vatnsvoda og allri ólucku frá oss og þeim oss vidkoma, og géf øllum sorgbitnum, sjúkum og deyandi, ad njóta þinnar ríkugligu nádar, þá skal á morgun allur vor munnur vera fullur af þinni lofgjørd, og vér viljum framsegja, hvad gott þú hefur gjørt oss til lífs og sálar. Fyrirgéf oss, høfum vér ecki svo vandliga þjónad þér í dag, sem

vér áttum ad gjøra, og tak ecki þessvegna pína náð frá oss; lát, med þessari nýu viku, allt verda nýtt á oss, géf oss nýa elsku og laungun til þín, nýann vilja til ad þjóna þér og hlýda. Lát oss, þær syndir, sem vér á lidinni viku frømdum, fordast og flýa, svo allir sjái, ad vér høfum þenna sunnudag ecki til ónýtis lifad. Hjálp oss sífeldt ad athuga, ad vér høfum eina ódaudliga sál, uppá þad, vér berum meiri umhyggju fyrir vorum sálum enn vorum líkømum. Vér viljum nú, vor Gud! leggjast í vorar hvílur, vér minnumst af því vorra legstada í hvørjum vér hvíla munum, þángad til þú á þeim glediligasta, sídasta degi munt uppvekja oss til eylífs lífs; svo fari þá vorir líkamir í sín herbergi til hvíldar, enn sálir vorar í undir Jesú, amen.

## Versid:

Frá þér, Drottinn! ver eg villist, vel og sætt eg hvíli' í þér, enn þótt svefni augun fyllist, ædstu þánka vek í mér, minn lát anda eins vid blund, í þér vaka hvørja stund, þartil dagur ljós fær lýsa, og lénast tími upp ad rísa.

## Mánudags Kvøldbæn.

Vér liggjum og sofum með øllu í friði, því þú, Drottinn! alleina hjálpar oss, það vér óttalausir búum. O þú eylífi og allmáttugi Guð! þessir eru vorir kvøldþánkar, er vér viljum leggja oss til hvíldar; ó! hvørsu fáum vér nógsamliga þakkað þér, að þú hefur leidt oss út og inn, svo vér høfum ecki fótum drepið við nockrum steini. Þú hefir mettað oss og dryckjað, þú hefur huggað oss og endurnært, þitt tillit hefur varðveitt vorn andardrátt, og fyrir þig og þína náð lifum vér enn, allt á þennan dag. Allir þessir og aðrir velgjørníngar eru ecki annað enn raddir, sem hvetja oss til þinnar lofgjørðar, fyrir því lofi Drottinn sálir vorar, og allt hvað í oss er, hans heilaga nafn. Lofi Drottinn, vorar sálir, og gleimi ecki hvað gott hann hefur gjørt þeim! Fyrirgéf oss, Drottinn! fyrirgéf oss af náð! høfum vér ecki í dag haft vors Endurlausnara dæmi fyrir augunum vikið frá sjónum oss þínum boðum, enn þarámóti lifað eptir heiminum, og með heiminum, og géfið

lausann taum vorum gyrndum. Værir þú ecki þolinmódur Gud, já, Fadir miskunsemdanna, þá lifdum vér ecki framar, því engin manneskja gæti svo lengi þolad, sem þú hefur unnt oss tíma til ydrunar og apturhvarfs. Æ Drottinn! vér játum oss seka, og gjørum ydran í dupti og øsku; dagurinn er nú lidinn; afmá þú líka vorar syndir sem þoku, og minnstu þeirra aldrei framar meir. Vér lofum þér því hérmed, hjartans einlægliga, ad vér viljum ástunda þér ad þjóna, og laga vora breytni eptir þínu ordi; vardveit oss á þessari nóttu, fyrir allri ásókn óvinarins, fyrir ólucku og øllu íllu; apturlát sjálfur, ó Jesú! vor augu, þá vér útaf sofnum, inrþryck þá um leid þína blódugu mind vorum hjørtum, svo vér gleimum þér ecki.

Í þér vaki ønd in mín, æ mig dreymi, Gud! til þín, ad sé eg þinn og þér tilheyri, þó mig svefninn niburreiri.

Vertu vort ljós í myrkrinu, vor hjálpari í naudunum; vor hjørtu minna þig á þitt ord: þér skulud míns andlitis leita; því leitum vér

líka, Drottinn, þíns andliits; vér vitum hvørgi að snúa oss nema til þín, ó þú almáttugi Guð! Vor Faðir er hjá oss, hví skyldum vér óttast, þótt vér alleinir lægjum og svæfum? vor Jesus, ljós vorra sálna, er hjá oss, þó ljós vorra augna byrgist; sá heilagi Andi er hjá oss, hann viðheldur þeim vitnisburði í vorum hjørtum, að vér séum Guðs børn, þó vér sjálfir vitum eckert til vor. Séum vér þá innlæstir vernd hins þríeina Guðs, svo sofum vér óhultir sem Jacob, vér sofum óttalausir eins og barn við sinnar móður brjóst, vér sofum, verndaðir, sem Petrus. Amen.

Versið:

Hugsaðu til mín, góði Guð! þó gjørist dimt af nótt, verndi mig hér þín háblessuð, heilagra Engla gnótt; augun svo lyk eg ørmøgnuð, og sofna glaður skjótt; en augu þín vaka ósyfjuð, af því verður mér rótt.

## Þriðjudags Kvøldbæn.

Drottinn er með oss, því óttumst vér ecki, hvað géta oss mennirnir gjørt? Svo

tølum vér nú, ó þú nádugi og elskuríki Guð! á þessari kvøldstundu, og segjum þér auðmjúkar þakkir, að þú hefur látið oss aflifa þennann dag, undir þinni føðurligri vernd, elskuríkri forsorgun, nádugri handleiðslu og ríkugligri blessan. Drottinn! þín gjæðska er stór, og þín miskunsemi hefur engann enda! Drottinn er nálægur øllum, sem hann ákallá, øllum sem hann af hjarta ákalla; hann heyrir hvað þeir guðhræddu gyrnast, hann heyrir þeirra hróp og hjálpar þeim. Æ vor Guð! hvað skjótt líður þó einn dagur? eins og ør sé skotið, svo fljótt líða vor ár; kénn oss því, að það muni hljóta að verða úti með oss og vort líf hafa eitt takmark, og vér hljótum héðan að fara; sjá, voxir dagar eru ein þverhandar breidd fyrir þér, og vort líf er sem eckert fyrir þér; vér hljótum allir að opinberast fyrir dómstóli Kristí, uppá það, að hvøreinn medtaki, eptir því, sem hann hefir aðhafst í líkamans lífi, sé það íllt eða gott. Fyrir því dæmum vér oss sjálfa og spyrjum, hvør einn fyrir sig: mín sál! hvørnig hefir þú brúkað daginn í dag? hefur þú nockuð

gott gjørt? hefur þú verið í dag Guði sameinuð? eður hefur þú styggt hann frá þér, með ásetníngs og vitanlegum syndum? Minn munnur! hvað hefur þú í dag látið af þér heyra? hefur þú talað það, sem skickanligt, skírlíft og siðsamligt er? hefur þú útbreidt lofgjørð Guðs? eða hefur þín ræða verið narrarí og skammarlig orð? hvørt hafið þér géngið? þér fætur! hvað hafið þér gjørt og unnið? þér hendur! hvað hafið þið heyrt? þið eyru! eptir hvørju hafið þið skignst? þið augu! hvað hafa vort hjørtu í dag gyrnst, umhugsað og eptirsókt? Æ vor Guð! ef vér skyldum svara uppá øll þessi spursmál: ó! hvørsu mundum vér þá standast? Æ Drottinn! burttak með þeim burtvíkjandi degi, vorar yfirtroðslur; ó Jesú! afmá vorar syndir með þínu heilaga blóði; ó þú heilagi Andi! fullvissa oss um fyrirgéfníng allra vorra synda, áður enn vér sofum, svo vér, ef þessi nótt á að verða vor síðasta, ecki fortøpumst. Séum vér þá, þríeini Guð! kvittir sagðir við sektir vorar, þá sofum vér með friði, og fordumst á morgun, með meiri varúð, allt það sem þér er til móðgunar. Vor

Fadir! þín elska breidist á oss og vora; ó Jesú! í þínum undum hvílum vér hægt og rósamliga; ó þú heilagi Andi! tilbú þú það seinasta andvarp í vorum hjörtum, áðurenn vér útaf sofnum, með hvörju vér felum vorn anda í Guðs hendur. Amen!

## Versið:

Þó hafi' eg, Fadir! frá þér runnið, flý eg aptur samt til þín; Son þinn hefur sátt mér unnið, með sinni kvöl og dauðans pín; játa eg brotin margföld mest, en miskun þín og náðin best, meir enn syndin miklu vega, við mig sem lodir æfinlega.

## Miðvikudags Kvöldbæn.

Vér liggjum og sofum og vöknum, því Drottinn viðheldur oss. O þú heilagi, gjæðskuríki og alleina vísi Guð! þú hefur nú látið oss um liðinn dag aptur fá að reyna, að þú ert sá rétti Fadir yfir allt, sem börn kallast, á himni og jörðu; þú hefur eptir þinni óendanligri gjæðsku fyrir oss séð, svo vér höfum engann skort haft á neinu góðu; æ Drottinn!

vér erum minni allri þeirri gjæðsku og trúfesti, er þú hefur auðsýnt oss. Hvørsu skulum vér Drottni endurgjalda allt það góða, sem hann dagliga gjörir oss, oss, sem einúngis erum dupt og aska! Fyrirlít ecki það auðmjúka lofgjørðar offur, sem vér færum þér á þessari kvøldstundu, og álít oss framvegis í náð. Fyrirgéf oss, ó þú náðugi Guð! það sem vér høfum á þessum degi móti þér brotið, með hugsunum, orðum og verkum! hjálp, að vér ásamt vorum klæðum, afklæðumst øllum vondum vana, íllsku og ránglæti, svo vér á morgun og alla vora daga høtum það og forðumst, að vér afleggjum, eptir hinni fyrri breytni, hinn gamla manninn, og íklæðumst hønum aldrei meir. Lát oss á þessari tilkomandi nóttu, eins og alla vora vandabundna og heimilis menn, vært og rósamliga sofa undir vernd þinnar náðar. Sólin byrgir sig, enn lát, ó Jesú! sól réttlætisins, þinn ljóma alltíð lýsa í vorum hjørtum; uppfyll oss í svefninum með góðum hræríngum, uppá það, þegar vér vøknum, sé þitt nafn og þín minníng alltíð í vorum hjørtum, að vér, þá vér vøkum í vor-

um rumum, hugsum og telum um þína gjæðsku, trúfesti og náðugu handleiðslu, og þarmeð burtdrífum alla óþarfliga áhyggju og syndsamliga þánka. Endurnýa í svefninum vora krapta, svo vér daginn lítum glaðir og frískir. Vaki einn hyrðir yfir sínni hjörð, svo lát oss, til lífs og sálar, þinni hyrðirs trúfesti befalaða vera. Enn viljir þú til reynslu vorrar trúar, þolinmæðis og vonar, leifa einhvörju, um dag og nótt, mótdrægu yfir oss að koma, þá minnstú, vor Guð! þess, að vér erum þín börn, að vér megnum ekkert án þín, og að það sé þitt, sem vors Föðurs, að senda oss hjálp, og frelsa, frá þínum helgidómi. Gleð þú oss í hrygðinni, endurnær þú oss í eymdinni, þegar vér erum yfirgéfnir, þá tak þú oss hjartanliga að þér. Lát þína allstaðar nálægð, og þitt alltsjáandi auga, halda oss dag og nótt frá syndunum. Við aðkomu næturinnar, hefjum vér nú vor augu upp til fjallanna, hvaðann oss kémur hjálpin, vor hjálp kémur frá Drottni, sem skapað hefur himin og jörð. Amen!

Versið:

Minnar dagur einn er æfi, aptur frá mér

burtvikinn, Drottinn! hjálp, eg gaum ad gjæfi, hvert gjørdi' og bestann vilja þinn, sýn mér hitt á sama veg, sem adhafdist vondslegt eg, svo kvøldid þetta helgad heiti, hærstum þér ad ollu leiti.

## Fimtudags Kvøldbæn.

Þegar vér leggjum oss til hvíldar, þenkjum vér til þín, og þegar vér voknum, þá tølum vér um þig, ó þú alleina ríki og elskuríki Gud og Fadir! hér komum vér aptur, gjæddir og nádadir af þér, med mørgum velgjørdum, á þessari kvøldstundu, med þacklátum hjørtum, fram fyrir þitt auglit. O! hvad nádarsamliga hefur þú oss álitid, og misskunad þig yfir oss, sem einn fadir yfir sín børn, svo vér án skada høfum nád ad lifa allt á þennann kvøldtíma; þitt lánglundargéd hefur vægt oss, svo þú hefur ecki hegnt oss eptir vorri verdskuldan. AE! fyrirgéf oss allar yfirtrodslur, med hvørjum vér høfum módgad þig, heimugliga edur opinberliga. Vér hefdum átt ad vera sterkari í því ad strídi móti syndinni, kappsamari í því góda, andaktugri í bæninni, varkárari í rædunni, gudhræddari

í breytninni; en hvør kann ad skilja hvad opt hann fellur? Fyrirgéf einnig vora heimugliga bresti. Lát oss nú héreptir med allri ástundan fordast þad, med hvørju vér høfum stiggt þig á þessum degi; séu vorar syndir miklar, þá er þín miskunsemi miklu meiri; værir þú ecki svo miskunsamur Gud, Drottinn! hvør mundi þá lifa? Vér leggjum oss nú til hvíldar, vor Gud, æ loka þú sjálfur dyrnar eptir oss, eins og dyrum Nóa arkar, svo engin vøtn hørmúnganna nái ad dreckja oss; lát þína heiløgu Engla taka oss í vøktun og forsvar, svo hvørki synilegir né ósýnilegir óvinir hindri vora hvíld og rósemi. Lát oss einnig, þegar vér leggjum oss í vor hvílurúm, til þess hugsa, hvørsu vér á sínum tíma, munum med jordu huldir, en á efsta degi aptur uppvaktir, verda. Lát oss alla daga svo lifa og útenda, ad vér megum hugga oss vid nádugann Gud, og góda samvitsku, uppá þad, vér megum vidbúnir vera, á hvørri stundu, sem þú kémur oss heim ad flitja. Líka sem vér liggjum og sofum, og drøgum þó samt andann, ó Jesú! svo vertú oss einnig í svefninum sameinadur. O þríeini

Gud! undir þinni vernd og hlífdarskyldi, gêlur engin naud né daudi gjørt oss mein edur skada. Þín elska og vernd, ó Fadir! þínar undir, ó Jesú! þín hjástod, ó þú verdugi heilagi Andi! eru þær vagnborgir, í hvørjum vér med værd sofum og hvílum óhultir, fyrir því má Satan flýa og fjær vera. Lát líka alla vora vera undir þinni vernd, einnig alla auma og naudstadda. Styrk í svefninum vora krapta, og lát oss, eptir þinni velþóknum, aptur fá á morgun dagsins ljós ad líta.

Gêf mér, Drottinn! ad sofa sætt, svo mitt el verdi gêdid hrædt, vek mig aptur af værum blund, þá væri er þartil komin stund; lát mig svo bidja bestaun þig, ad blessa og styrkju í øllu mig, svo veitist fornun velsembar, verkunum minnar køllunar.

Heyri Gud, sem mig gjørdi og skóp, grátbeidni mína og hjartans hróp, lát mig þig, Jesú! ljósid bjart, líta þó myrkrid verdi svart; Andinn heilagi, eg nær dey, eg bid þig, viktu frá mér ei, hressi þá blessud huggun þín, vid hold skiljandi sálu mín!

Veri þetta í Jesú nafni já og amen.

## Føstudags Kvøldbæn.

Engill Drottinns setur herbúdir í kríngum þá sem hann óttast, og hjálpar þeim úr

allri nauð. O þú mikli og sterki Guð! lát einnig á þessari tilkomandi nóttu, þína heilögu Engla, setja upp sínar herbúðir í kríngum oss og ummúra oss með sinni voldugri vernd. Þar þú í dag boðið hefur Englunum að varðveita oss á öllum vorum vegum, svo lát þú þá líka í nótt, sem þá sterku Salomonis, standa í kríngum vor hvílurúm. Vér leggjum oss nú til hvíldar, vor Jesú; æ! aðreif dyrastafi vorra hjartna með þínu heilaga blóði, svo eckert skaðligt nálægi sig til vor; vér óttumst ecki, ef þú ert hjá oss. Þú hefur í dag með oss verið hvört sem vér höfum snúið oss, og tillagt þína blessun verkum vorum; þú hefur látið luckast allt það, sem vér höfum í þínu nafni fyrir oss tekið. Æ! að Jósephs orð hefðu verið í dag vor staðfest regla: "hvørsu skyldi eg gjøra svo mikið íllt, og syndgast á móti Guði!". Æ! fyrirgéf oss náðarsamliga, það sem vér höfum á þessum degi íllt gjört, talað og hugsað! lát með þeim dvínandi degi, líka að engu verða vorát syndir og synda sektir, svo þeirra aldrei að eylífu framar minnst verði. Ef þú villt

tilreikna syndirnar, Drottinn! hvør fær þá stadist? því vér vitum øldúngis þad svo verá, ad enginn madur reynist réttlátur fyrir Gudi; vilji hann vid oss þrátta, þá gétum vér ecki svarad hønum einu ordi til þúsund, enn þad sem oss vantar til, þad viljum vér med Jesú blódi betala. Vor Jesus er vor, hanns blód er vort, hans réttlæti er vort, hans himin er vor.

Verndarinn kjær því minnstu mín, mig, gódi hyrdir! tak ad þér, af gjædsku bestum brunni þín, blessun mørg hefur géfist mér.

Láttu þvílíka þína gjædsku leida oss til ydrunar, þar þú hefur elskad oss svo mjøg, og af mikilli elsku hefur þú oss til þín dregid. Lát þitt heita blód og trúføstu elsku verma vor køldu hjørtu, svo vér styggjum þig aldrei framar meir af ásétníngi, þig, sem hefur gjørt oss svo margt og mikid gott. Vér leggjum oss nú til hvíldar, og þessi nótt gétur ordid vor sídasta; vér vitum vel, hvørninn vér leggjumst nidur til ad sofa, en vér vitum ecki, hvørnig vér múnum uppstanda, þad er einúngis í þínu valdi, þú Herra vorra daga og vors lífs; en þad vitum vér til vissu, ef vér

í þínu nafni, vor Fadir! í þínum undum, ó Jesú! í þinni sameiníngu, ó þú verdugi heilagi Andi! útaf sofnum, þá deyum vér sáluhjálpliga, þó vér fáum ecki aptur upp ad rísa til þessa tímanliga lífs. Amen!

V e r s i d:

Byrgdur í Jesú blódundunum, býst eg nú í minn hvílurann, eitt eg í svefni er med honum, augu mín saman lykur hann, eg hræðist enga myrkra makt, minn þared Jesus stendur vakt.

## Laugardags Kvøldbæn.

Þó vér gaungum í myrkrunum, þá er Drottinn vort ljós. O þú elskuríki og nádugi Gud! nú er á enda dagurinn og þarmed líka vikan, enn þín nád varir án afláts; fjøllin kunna ad víkja og hædir nidurfalla, en þín nád víkur ecki frá þínum børnum. Þessi eylífa nád hefur nú líka látid oss lifa þessa viku út. Hvad vér í upphafi vikunnar ecki vissum, þad vitum vér nú, nefniliga, ad vér mundum heilbrygdir lifa lok hennar. Þínar velgjørdir hafa þessa viku margar verid, þú hefur bænheyrt oss, verndad oss, gefid oss góð ráð, verid med oss; enginn dagur hefur svo

hjálidid, ad vér høfum ecki af þér þegid, náðar-, elsku- og blessunar-gáfur; já, engin stund er svo hjálidin, ad ecki hafi yfir oss flotid ríkugligir straumar þinna velgjørda. Nú høfum vér, hvad vér í upphafi æsktum oss; ó þá miklu náð, elsku og miskunsemi! Ennnú hugsum vér líka vid enda vikunnar til vorra synda; margar hafa vorar yfirtrodslur verid, sem vér med þaunkum, vilja, gyrndum, verkum og forsómun framid høfum. Þar vér høfum ecki svo trúliga sorgad fyrir vorum sálum, ecki svo margar stundir þér helgad, sem vér hefdum átt ad gjøra. Æ Drottinn! Drottinn! fyrirgéf oss þessa synd! æ Drottinn Jesú! drag med þínu heilaga blódi, yfir alla þessarar viku synda handskrift, svo hún verdi oss ad eylífu uppgéfin og forlátin. Drottinn! straffa oss ecki í þinni reidi, og typta oss ecki í þinni brædi! vertu einnig á þessari nóttu, einn eldligur múr í kríngum oss, og lát enga ólucku, skadsemd eda hættu snerta oss, né þá, sem oss vidkoma! Hjálp, ad vér vørpum allri vorri áhyggju uppá þig, og hvílum í þinni umsjón, vor Fadir! rósamliga. Vér erum nú

einni viku eldri, og einu skrefi nær eylífdinni; endir þessarar viku minnir oss á enda vorra daga, ad sú sídasta vika, sá sídasti dagur, sú sídasta stund vors lífs, muni einnig koma, hvar á eptir fylgja mun sú lánga eylífd. Hjálpa því, ad vér brúkum svo allar vikur, daga og stundir, ad vér þurfum ecki ad skelfast fyrir þínu augliti! hjálp, ad vér alla daga þángad vendum vorum hjørtum, hvar vér óskum eylífliga ad vera. Hér erum vér pílagrimar, hafandi sína náttbúd á jørdunni, enn á himnum er vort fødurland og eylíft heimili, hvar þú munt þerra øll tár af þinna augum, gëfa þeim þíns húss dýrdar gjædi, og endurnæra þá med eylífum føgnudi. Nú leggjum vér frá oss ydju vora, og verk vorrar køllunar, og búum oss undir þann á morgun komandi sunnudag, hvørn vér viljum brúka til ad bidja, syngja og hugleida þitt heilaga ord; gëf oss til þess krapt þíns heilagu Anda, svo hvørki mennirnir, né vor egin hjørtu, hindri vora gudrækni, Amen!

Hégóma þánkar hverfi frá og halldi fjarlægd í,
hús Gudi' er situr himinum á, í hjarta minu eg bý.

# III.

# Hátída-Bænir.

## Á Sunnudaginn Fyrstann í Adventu.

Ó! þú nádaríki Jesú! sem kominn ert til ad uppleita, og hólpid ad gjöra þad sem tapad var: vér þökkum þér, ad þú hefur látid oss aptur fá ad lifa þessa heilögu tíma undir þinni nád og varðveitslu. Æ! gef oss krapt þíns heilaga Anda, ad vér fáum brúkad þá í þínum ótta, med heilögum hugleidíngum og til vorra-sálna uppbyggíngar. Þú eyngisti sonur Guds, þú sem verid hefur, ádur enn grundvöllur veraldarinnar var lagdur, þú ert kominn í holdid, ordinn sannur madur, svo þú feingir gjört oss farsæla og sáluhólpna. Sökum þess þúnga syndafalls gátum vér ecki til þín komist í himininn, þessvegna komst þú til vor á jördina, uppá þad þú fengir alla oss innleidt til sáluhjálparinnar. Vér vorum ordnir, fyrir syndina, framandi, já, fángar, og Guds óvinir, enn fyrir þína allraheilögustu hingadkomu bætist úr því öllum saman. Ó! hvílík nád! hvad óumrædilig elska! þinna vegna, ó Jesú! ega þeir framandi ad verda vinir, fángarnir endurleystir, óvinir Guds hans elskuligir, syndararnir hör, og þeir föllnu aptur vidreistir. Ó! þá heilögu tilkomu, fyrir hvörja vér, til dauda fordæmdir, fáum lífid, vér sem ádur vor-

um fallnir úr náðinni, verðum fyrir þig með dýrð og æru kórónaðir; því það er vissuliga satt, og eitt dýrmætt verðugt orð: að Kristus Jesús er kominn í heiminn, synduga menn sáluhólpna að gjöra. Elskuligasti Jesú! gjör oss einnig sáluhólpna, leið oss einnig í þitt fagnaðar ríki; géf oss um þennann heilaga Adventu tíma, aðgjætin og hlýðin hjörtu, svo vér heyrum þitt heilaga orð með kostgjæfni og andakt, varðveitum það í vorum hjörtum og meðtökum það í trúnni, voxum í þinni þeckíngu og elsku, jafnvel á þessum heilögu dögum, og sýnum í voru líferne ávexti trúarinnar, sem eru bindindi, auðmýkt, hógværð, hlýðni, guðrækni; svo þín tilkoma megi einnig verða oss, sáluhjálplig og heilsusamlig tilkoma. Æ! varðveit oss, að það ecki kunni um oss að segjast: hann kom til sinna eginn, enn hans eginn meðtóku hann eigi. Æ Drottinn Jesú! vér tökum við þér í trúnni, vér elskum þig, vér heiðrum þig, vér eptirfylgjum þér. Kom hér inn, þú blessaður af Drottni! hvar fyrir stendur þú úti? vér höfum fyrir þína náð, tilreidt þér vor hjörtu; kom í vor hjörtu, vér viljum þig, sem vorn einka Endurlausnara, Heilsugjafara og Sáluhjálpara, í trúnni umfaðma, þína forþénustu og réttlæti oss tileinka; kom í vor hjörtu, af elsku til þín viljum vér gjarnan forðast allt heimsins barna æði og lystisemdir, já, syndir og illgjörðir, svo þú einn verðir í vorum sálum búandi. Æ! bú þú í oss, helga þú oss þér, viðhald þú oss í þinni náð! vér yðrunst vorra drýgðu synda og leitum náðar í þér; því munu þær oss ei framar fordæma, þvíað,

ef Sonurinn leysir oss, þá erum vér sannleysir; sé Guð með oss, hvör kann þá að vera ámóti oss? O Jesú! þú komst sem konúngur; æ! rík því í vorum hjörtum, svo syndin géti ecki framar verið í þeim ríkjandi. Þú komst réttlátur; æ! gjör þú oss réttláta, og géf oss klæði þíns réttlætis! Vér gleðjum oss í Drottni, og vorar sálir eru glaðværar í vorum Guði, því hann hefur klædt oss klæðum hjálpræðisins, og prýdt oss með mottli réttlætisins. Þú komst fátækur, að þú fengir auðgað vorar sálir, auðgað oss í trúnni og himneskum gjæðum. Þú komst lítilátur; æ! gjör oss lítiláta, svo vér af þér lærum lítilæti og hógværð, og auðsýnum það sama í voru líferni, við öll tækifæri. O þú Konúngur dýrðarinnar! inngack um dýr vorra hjartna; sjá, vér opnum þér þær, fyrir þinn krapt; stjórna oss framvegis með þínum heilaga Anda, svo vér megum verða þinn bústaður og musteri æfinliga, allt til vorra sáluhjálpligu endaloka. Amen, ó Jesú! amen.

## Á Jóladaginn.

Þetta er sá dagur, hvörn Drottinn gjört hefur, látum oss á honum fagna og glaðir vera! O Drottinn! hjálpa þú, ó Drottinn! lát það vel luckast; lofaður sé sá, sem kémur í nafni Drottins! upp vorar sálir og brúki þessa hátíð til Guðs dýrðar og sinnar uppbyggíngar, og segi! ó þú heilaga þrenníng, Faðir, Sonur og heilagur Anda! Æ! að allir vorir blóddrópar væru túngur, með hvörjum vér prísað gjætum

pína elsku, náð og miskunsemi! Guð er kjær-leikurinn, það viðurkenna vor hjörtu og sinni á þessari heilögu hátíð. Þín elska hefur meðal uppfundið, til að fá menniná til náðar tekna, hvört eð enginn Engill né maður hefði gétað upphugsað, að miðpersóna Guðdómsins skyldi maður verða til að helga og hreinsa aptur þar-með mannliga náttúru. O þú ástúðligi Jesú! sé þér sagt eylíft lof og þakklæti, fyrir þína holdg-an og hingað sæðingu; þú varðst manns barn, svoað vér mættum verða Guðs börn; nú er hátt upphafin mannlig náttúra, þú hefur sameinað hana þínum Guðdómi, og innleidt hana í sam-kvæmi heilagrar þrenningar; ó þá elsku! ó þá náð! svo sannarliga sem mannlig náttúra er sam-einuð þeirri Guðdómligu, svo sannarliga er milli Guðs og manna ákominn eylífur vinskapur, eylíf forlíkun, eylífur friður, eylíf elska; þar Guð álítur oss í sínum syni, þá gétur hann ei ann-ars enn verið oss náðugur; hafi hann ecki þyrmt þessum elskuliga, heldur géfið hann út fyrir oss alla, því skyldi hann þá ei géfa oss alla hluti með hönum? nefniliga: fyrirgéfning syndanna, réttlæti, frið, líf og sáluhjálp. O þá miklu elsku Jesú! sem vildi fæðast úngbarn, svo hann helg-aði vora saurugu fæðingu, hann vóx að aldri og vitsku, svo hann helgaði vora æsku.

Velkominn, góði géstur! hér, sem glæpamenn ei forsmáder, ofan þú stést í eymd á jörð, æ sé þér lof og þackargjörð.

O vor elskuligasti sálar vinur! vor bróðir! þig höfum vér nú hjálpara i hörmúngunum, Lausn-

ara í liðunnunum, Sáluhjálpara þegar syndin hræðir, aðstoð í nauðunnum, lífsgjáfa í dauðanum. Þú er vort ljós, sem upplýsir oss, vegurinn sem leiðir oss til Föðursins, sannleikurinn sem fræðir oss, lífið sem lífgar oss; þú ert vort réttlæti, sem gjörir oss réttláta og sáluhólpna, vor æðsti prestur, sem fyrir oss biður og blessar oss; offurlamb fyrir vorar misgjörðir, fullkominn borgun fyrir vorar yfirtroðnur. O þú verðugi heilagi Andi! hvað mikil er þín elska, að þú létst boða oss þessa huggun, þessa gleði, þetta hjálpræði. Vér fögnum af innsta grunni vorra sálna á þessari heilögu hátíð, og segjum: vor Jesús er vor, hans forþénusta er vor, hans himinn er vor; þetta barn er oss, oss er það fædt! þessi sonur er oss, oss er hann gefinn! oss hefir hann líka afrekað og gefið náð Guðs, barna rétt og eylífa erfð, sem oss er geymd á himnum. O Jesú! hvörn vér í anda sjáum og skoðum, liggjandi í stallinum, hvað elskuligur ertú! hvað ástúdligur ertú! æ! veit oss þína náð, að vér gleymum þér aldrei framar, heldur höfum þig æsinliga í hjarta og munni, og oss fyrir augum; ó! vort hjálpræði! helga þú oss, vér gefum oss þér á vald, með öllu sem vér erum og höfnm! æ vor brúðgumi! umfaðma þú oss! þér viljum vér lifa, þér viljum vér þjóna, af elsku til þín viljum vér afneita heiminum og allri vellyst þessa lífs; æ! lát vor hjörtu vera þína vöggu, þinn bústað í tíma og eylífð; innlæs oss þinni elsku, og varðveit oss í henni, svo vér í þér hafa megum rósemi, frið, huggun, hæli og hjálp vorra sálna. Nú gløtumst vér ekki, þar Jesus er maður fædd-

ur; trúum vér á hann, munum vér ekki fortapast, heldur hafa eylíft líf. Gud er vor vinur, þar vér erum í Jesú fyrir trúna, og þared Jesus lifir í oss; daudann óttumst vér ekki, því í honum hofum vér lífid; ekki samvitskunnar áklögun vegna vorra synda, því Jesus er vor Talsmadur.

Hjartans brúdgumi huggun trú, hæli, lífid og gledin, þú, kvistur af Jakobs kominn rót, kjærsti Jesú, vor heilsu bót! hvad villtu af oss heimta hér? hvad skulum vér nú bjóda þér?

Fjør, sál, og andi fórn sé þér, færd til eignar, já, allt hvad ver, erum og hofum, þitt sé þad, þú hefur sjálfur útvegad; gef ad stunda dád og dygd, dofni aldrei vor svarin trygd.

Heyr oss, ó Jesú! Amen.

## Á seinasta dag Ársins.

Hvørsu skulum vér Drottni endurgjalda alla þá gjædsku og trúfesti, sem hann hefur audsýnt oss? Drottinn hefur mikla hluti vid oss gjört, þess erum vér nú gladir. O þú þríeini Gud! Fadir, Sonur og heilagur Andi, svo tala nú vorar af þinni nád sig gledjandi sálir, þegar vér enn þá undir þinni vernd og varatekt, hofum eitt ár farsælliga til baka lagt. Æ Gud! hvad kostulig er þín gjædska, ad mannanna børn mega óhult búa undir skugga þinna vængja? þau verda drukkin af nægdargædum þíns húss; þú dryckjar þau med sælgjæti, sem ødrum straumi, því hjá þér er sú lifandi uppspretta, og í þinu ljósi sjáum vér ljósid. Vor Gud! dagarnir ársins

erir margir, þó eru þínar velgjørdir fleiri; stundir og minútur ársins má telja, en þínar velgjørdir, sem þú hefir audsýnt oss, eru óteljandi. Vér þøckum þér, ad þú hefur á þessu ári látid prédika oss þitt heilaga ord hreint og klárt, og í því sýnt oss veginn til himinsins og vorrar eylífu heilsu; æ! innsigla allt þad vér af því heyrt hofum í vorum hjørtum, og géf oss þinn heilaga Anda, ad vér eptir því løgum vort líferni; vér þøckum þér, ad þú í þinni heiløgu kvoldmáltíd hefur mettad oss og dryckjad med þínum heilaga líkama og blódi! æ! lát þad verda oss til trúarstyrkíngar og lífernisbetrunar; vér þøckum þér, ad þú hefur oss optliga syndirnar fyrirgéfid, og afvendt þeirra verdskuldada straffi; æ! géf oss orku, svo vér á tilkomandi ári vorumst þær, og drýgjum þær ei framar vísvitandi; vér þøckum þér, ad þú hefur blessad vora stétt og stand, veitt oss fædi og klædi, gefid oss heilbrygdi, varnad oláni, mýkt vort mótlæti, álitid oss nádarsamliga í vorri eymd. Þú hefur vardveitt oss vid vorum óvinum, sem alltumkríng hafa umsetid vorar sálir; þú hefir heyrt til vor í neydinni og lófad bænum vorum ad þreyngja sér gégnum skýin allt ad þínum tróni; þú hefur í ángistinni sendt oss hjálp frá þínum helgidómi, og styrk frá Zíon; þú hefur úthellt þinni blessan yfir oss, þitt andlit ecki fyrir oss byrgt, þá vér hrópudum til þín. Þú, elskuríki Fadir! hefir oss þín børn, leidt þér vid hond, þú voldugi Kóngur! hefur oss, þína undirsáta, móti vorum óvinum forsvarad; þú trúfasti Hyrdir! hefur oss, þínum saudakindum, í grænum haga á beit hald-

íð; þú hefur oss lifandi viðhaldið, þar sem hinir aðrir fóru ofan í grofina; þín gjæðsku og trúfesti hefur frá upphafi ársins, til enda þess, leidt oss á ollum vegum. Þinn vísdómur hefur leiðbeint oss, þín elska hefir hulið oss, þín hjálp hefur endurnært oss, þín náð hefur viðhaldið oss, þitt almætti hefur oss í ollu hjálpað, þín orláta forsorg hefur allt gefið oss, þitt alltsjáandi auga hefur að oss gjætt, og varðveitt vorn inngáng og útgáng, svo að oss ekkert íllt hendti. Fyrir því sjáið og smakkið, hvað góður Drottinn er, og hvað mikið gott hann hefur gjørt vorum sálum! Hafir þú oss á stundum reyna látið margt og þúngt mótlæti, hefur þú þó aptur hresst oss; hafi stundum margt þúngt legið á vorum hjörtum, hafa þó þínar hygganir endurnært vorar sálir; hafi oss opt verið háski og nauð nærri, hefur líka þín hjálp verið oss nærri, og þinn Engill hefur varðveitt oss á ollum vorum vegum, og hrifið oss úr kverkum ljónsins. Æ vor Guð! fyrirgéf oss náðarsamliga allar syndir, æ! allar syndir, sem vér á þessu liðna ári drýgt hofum, æ! straffa oss ekki fyrir þær á því eptirkomandi ári, heldur fyrirgéf oss þær, Jesú vegna. Drottinn minnstu ei á syndir vors úngdóms, og á vorar yfirtroðslur, heldur minnstu vor eptir þinni miskunsemi, sokum þinnar gjæðsku. Drottinn! Drottinn! svo endum vér, þá árið, með þakklæti, lofgjörð og bæna ákalli, og biðjum þig auðmjúkliga: vertú einnegin vor verndari og náðugur Guð á því nýa ári, hald þinni hendi yfir oss, og lát oss þinni varatekt, þinni elska og náð framvegis befalaða vera, Amen.

Versið:

Guði sem góður er, gjæðskuunar faðir, þakkargjörð vondum vér, velsemd auðgaðir; dásemdir hann, drýgir, og hjörtun kætir, hann stillir hrygð og pín; hann allra barna sín, góðsamur gjæti.

# A Nýársdag.

Drottinn! Drottinn! miskunsamur, þolinmóður, mjög líknsamur og trúr, þú sem ert frá eylífð til eylífðar, og hjá hvorjum engin umbreyting er, né umskipti ljóss og myrkurs: sjá, undir þinni vernd höfum vér nú aptur eitt nýtt ár uppbyrjað. Drottinn! hvað mikil er þín gjæðska, að mannanna börn mega athvarf hafa undir skugga þinna vængja; þú gjörir þau druckin af gjæðanægtum þíns húss; brunnur Guðs hefur vatns-nægð yfirfljótanliga. Þetta allt höfum vér, vor Guð og Faðir! á umliðnu ári reynt, og því viljum vér nú byrja þetta nýa með því að andvarpa, biðja og ákalla. Drottinn! árla, strax í byrjun ársins viljir þú heyra vora raust, á þess fyrstu tímum viljir þú þar aðgjæta. Æ Drottinn! vér vitum ecki hvað á þessu nýa ári kann fyrir oss að koma, árið er lángt, dagarnir margir, mannlig eymd margkvíslig, og ólucku tilfelli, sem menninna kunna að ramma, óteljandi. Því komum vér nú til þín, ó þú sterki og elskuriki Guð! og viljum strax í uppphafi afhenda oss þinni náð og trúfesti; æ! þegar allt verður nýtt, laudið að nýa uppljómast, sólin hærra stigur, allt með tíðinni með nýum kroptum

endurlífnar; þá lát einnig þína gjæðsku og miskunsemi yfir oss nýa vera. Vér befölum vorar sálir í þína náðarríku fodur vernd, vardveit þær frá syndunum, svo vér ekki fleckum þær, med íllgyrnis yfirtrodslum. Drottinn Jesú! helga, þvo og hreynsa þær med þínu heilaga blódi. Gud heilagi Andi! bú í oss, lát þær vera þín musteri. O! hvad blessad mun þetta ár verda oss, ef vér, ó himneski Fadir! blifum í þinni náð, og lifum sem þín børn. O! hvad farsælir munum vér verda, ef vér verdum þér, ó Jesú! sameinadir. O! hvad fagurbúnir munum vér verdagánga, ef þú, verdugi heilagi Andi! býr í oss og stjórnar oss. Sé Konúngsins dóttir innvortis prýdd forkostuliga, svo munum vér í þeim skrúda þér vel þóknast. Og svo sem þú híngadtil hefur géfid oss þá dýrmætu gjøf, líf og heilbrygdi, svo virdstu þeirri somu á þessu ári, sé þad þinn fodurligur vilji, og vorum sálum heilsusamligt, nádarsamliga ad vidhalda, svo vér þess hæfari verdum, til ad þjóna þér og stunda verk vorrar køllunar. Enn skyldi þad þóknast þínu heilaga vísdóms rádi, á oss ad leggja sóttir edur sjúkdóma, þá vík ei frá oss; þegar vér hormúng lídum, þá líkna oss; þó þú viljir vér skulum allt yfirgéfa, þá lát þó stund þinnar endurnæríngar yfir oss koma. Hald þinni heydi, Drottinn vor Gud! yfir þeim er oss vidkoma, og øllu sem vort er, vertú einn eldligur múr um þad allt, sem um Elíam, vardveit oss allt um kring sem hús Jóbs. Léna oss kraptþins Anda, ad vér þetta ár verdum sanngudhræddir, og sannarlig Guds børn, ad vér séum andaktugir bidjendur, kostgjæfnir heyrendur og

gjörendur orðsins. Hjálp, að á þessu nýu ári megi það heita um vort sálar ástand: það gamla er hjáliðið, allt er nýtt orðið: að vér í oss finnum nýa laungun eptir þér, nýa elsku til vors náúnga, nýa gyrnd oss þér að sameina, og í þinni sameiníngu að blífa. Æ! helga oss alla saman, svo vor andi, ásamt sálum og líkömum, megi óstraffanlig haldast, allt til þess dags Jesú Kristí; géf oss nýtt kapp í vorum kristindómi, að vaxa og aukast í því enu góða. Blessa vort stand og erfiði, blessa vorn útgang og inngáng, géf oss það þín blessunar hönd hefur oss ákvarðað! Lát oss einnig við uppbyrjun þessa árs það hugleiða, að líka muni aðkoma það síðasta ár vors lífs, svo vér alltíð megum viðbúnir vera, í trú og yðran blífa, vora lampa logandi og vorar lendar umgyrndtar vera láta, til að fagna þér, ó vor brúdgumi og náðugi Guð! og inngánga til þíns ríkis, sem þú hefur oss frá upphafi fyrirbúið. Amen!

## Versidt

Eptir þínum, oss géf, vilja Anda nýann, vilja og dug, því að hlýða er æðst áskilja orðin þín, með réttum hug; svo vor andi, sál og líf, séu falin þinni hlíf, þíns góða Anda gott músteri, gjörist þau og alltíð veri.

Um árstíð þessa lót oss lifa, Lausnarinn trúr í verndan þín, þínum höndum oss innskrifa, oll svo flýi hætta og pín; hjálpa oss í hvorri neið, hjálpa oss í vorum deyð, svo fulltrúa nær fjörið dvínar, flýum vér á náðir þínar.

## Á Føstudaginn Lánga.

Ó! þú elskuríki og ástudligi Jesú! vér komum hér til þín, til. þess að yfirvega með hjartans andakt þína beisku pínu. AE!

Lát þína liðan megna, leiða oss eptir þér, svo héðan af hennar vegna, holds gyrndir fordumst vér, og aldrei gleimist oss géti það, hvað miklu heilsu vorrar, hefur þú tilkostað.

Ó þú saklausa slátraða Lamb! þú hefur liðið, að allar vorar, já allra manna syndir, sektir og misgjörðir, ránglætingar og vondskur, voru þér uppálagðar og tilreiknaðar, svo þú varst fyrir Guðs dómi álitinn sem hinn mesti syndari, já, sem syndirnar sjálfar. Svo sem nú vorum syndum var varpað uppá þig, þú flekklausa Lamb! svo dundu líka vorar hegníngar yfir þig, sem vatnastraumar. Í þínu spámannliga frædara embætti, hlautstú að líða fyrirlitníngu, forsmán og lastyrði, en þó tvöfaldaðist allt í þíuni pínu; þá lenti ecki við áklögun og daudadóm, er þú hlautst að mæta fyrir tveimur réttum, fyrir andligum og veraldligum, og verda fyrir báðum til dauða dæmdur; heldur, eptir það þeir fengu sinn vilja fram, og daudadómurinn var yfir þér uppsagdur, hlaust þú grimmustu písllr að líða á þínum líkama. Þá var þinn heilagur líkami særdur, húdstrýktur; sundurkrafsaður, og alblóðgaður. Skoðið, þér mannanna börn! hvört nockur písl hefir nockurntíma þvílík verið, sem písllr vors Jesú: hans höfuð var með þyrnum kórónað, hans líkami alblóðugur, og rétt sundur-

rifinn undir svipunum járnsuúnum; hans hendur og fætur voru á krossinn negldar, sídan med spjóti gegnumstúngin, svo hann mátti med sanni segja: eg em madkur og ecki madur. En ei ad eins var hans heilagur líkami svo aumkunarliga útleikinn, heldur hlaut hann og ad lída sárustu kvöl á sálunni, hvor ed hrygg var allt til dauda; á hana réduft reidinnar fossfoll og ángist Helvítis, svo ad hann hrópadi á krossinum: Gud minn! Gud minn! því yfirgáfstú mig? hvará eptir ad fylgdi daudinn sjálfur. Þú Lambid slátrada! þetta hefur þú allt lidid og þolad oss til góda, oss til besta, oss til huggunar, oss til fridar, oss til endurlausnar, oss til heilsu, oss til sáluhjálpnar; því,

Ef kominn ei Kristur væri, kjærstur í þennann heim og ecki á sér bæri eymd í manndóm þeim, vé vegna vorra synda, viljugur lífid mist, vér hésdum verid án enda æ fordæmdir víst.

En nú, ef vér á þig trúum, og í trausti trúarinnar tileinkum oss þitt heilaga blód, þá verdum vér ecki fordæmdir, vér verdum fyrir þig sáluhólpnir; ef vér fylgjum þér í heilögu framferdi, og berum rétta trúarinnar ávexti, þá töpumst vér ecki, heldur munum fyrir þig hafa eylíft líf. O vor Jesú! lát þína beisku þíun æfinliga vera oss fyrir augum, og í vorum hjörtum, svo vér oss vid hana huggum, verdum fyrir hana gudhræddir, fyrir hana réttlátir, og líka svo fyrir hana sáluhólpnir. Lát oss engann dag lifa þann, ad ecki sé þín blódug mind þér fyrir augum; lát þína pínu, þitt blód, þínar undir,

innskrifaðar standa á vorum höndum, já, í vorum hjörtum, svo við hvern andardrátt sé ekkert annað enn Jesú pína, Jesú dauði, Jesú blóð, í vorum þaunkum, svo vér fyrir það verðum heiminum fráskildir, helgaðir, hvítfágaðir og hreinsaðir. Vor Jesú! líka sem þín pína hressir, gleður, huggar, uppvekur og uppbyggir oss, svo gjöra það líka svo þín sjö orð á krossinum. Æ! fyrir oss hefur þú beðið: "fyrirgéf þeim!" fyrirgéf þessum sálum, það sem þær hafa móti þér gjört. Fyrir oss hefur þú kallað: "Guð minn! Guð minn!" því yfirgafstú mig? svo ver aldrei, ekki í krossinum, ekki í nauðunum, ekki í dauðanum, ekki fyrir dóminum, ekki á efsta degi, ekki hér tímanliga, ekki þar eylífliga, yfirgéfnir verðum. Fyrir oss hefur þú sagt: "mig þyrstir"! Æ! gef þú, að vér þig aptur í trúnni umfaðmum, eptir þér þyrstir þráum, og eptir þér þreyum, sem hjörtur eptir fersku vatni, í þinni elsku oss gleðjum og endurnærum. Fyrir oss hefur þú umhyggju borið, þá þú sagðir við Jóhannem: "það er þín móðir." Þegar vér einninn stöndum undir krossinum í hörmúngunum, af öllum mönnum yfirgéfnir, eins og María, þá munt þú oss hjartanliga að þér taka, þig yfir oss miskuna, fyrir oss umhyggju bera, oss hjálpa og náðugur vera. Æ! lát oss í andarslitrunum, í dauðanum, þá röddu heyra: "í dag skaltu vera með mér í Paradís". Fullvissa oss þessa meðan vér heilbrygðir lifum, tala það til vor á vorri banasæng, lát það á oss fullkomnast eptir dauðann. Fyrir oss hefur þú talað: "það er fullkomnað"; allt var gjört, sem vér hefðum átt

að gjöra, allt liðið, sem vér hefðum átt að líða. Nú er oss afrekuð heilsa, líf, friður, fögnuður, huggun, sáluhjálp, kóróna lífsins og það hvíta klæðið. Já, þitt síðasta orð á krossinum skal líka verða oss huggunar- og gleði-orð: "Faðir! í þínar hendur fel eg minn anda"; svo viljum vér biðja; svo viljum vér eptir þér hafa, sem þú hefur fyrir oss haft. Amen!

**Versið:**

Héðan þá skulum halda vér, heim í þíns ríkis farsælder, úr landi ánauðanna; bót vor og prýðin besta sé, blóð þitt og hreina fakleyse, að fáum frelsun sanna! Kórónu þeirri krýndir þá, kunnum sannliga staðist fá fyrir þíns Föðurs Tróni, og þig um eylífð umgángast, um eylífð þér að sameinast, á dýrðar dýrstu fróni.

## Á Páskadaginn.

Með fögnuði syngja menn út af sigrinum í hýbýlum réttlátra: hægri hönd Drottinns er upphafin, hægri hönd Drottinns beheldur sigrinum. Upprisni Jesú! voldugi sigurhöfðíngi Jesú Kriste! Sigrari dauðans, sterki Samson! af þinni upprisu upprennur nú í vorum hjörtum einskjær fögnuður, er vér nú, fyrir þinna náð, fáum að lifa þessa heilögu hátíð, og segjum með beigðum knjám, og samanlögðum höndum; Guði sén þackir, sem oss hefur sigurinn gefið, fyrir voru Drottinn Jesum Kristum. Jesus er upprisinn frá dauðum, það er glediligur boðskapur; Borgunarmaðurinn er úr fángelsi grafarinnar

laus látinn, fyrir því hlýtur syndin afmáð að vera, Guð forlíktur og skuldin borguð. Hvør vill nú fordæma? Kristur er hér, sem dáinn er, já, enn framar sá upp er vakinn, hvør eð situr til hægri handar Guði og biður fyrir oss: Jesus hefur tekið maktina frá dauðanum, og í ljós leiðt lífið og ódauðligleikann. O Jesú! vor kjærsti vinur! þín upprisa færir oss þrefalda huggun; vér segjum á þessari hátíð: Jesú upprisa er vor sigur. Nú géta ekki vorar syndir fordæmt oss, því fyrir Kristí blóð og undir, og fyrir hans upprisu, høfum vér fyrirgéfníng allra vorra synda, hvað mørgar, miklar og þúngar sem þær vera kunna; hér er ánægjanligt lausnargjald, fullkomin endurlausn; í Kristo høfum vér endurlausnina fyrir hans blóð, sem er fyrirgéfning syndanna. Dauðinn gétur ekki skaðað oss, því Kristur hefur dauðann yfirunnið, og vorn dauða gjørt að sætum svefni, já, að burtfør til Føður sins; Satan er yfirunninn óvinur, þó hann grenja kunni, gétur hann oss ekki uppsvelgt; þó hann áklagi oss, þá biður Jesus fyrir oss, og géfur oss sitt réttlæti, í hvørju vér verðum fyrir Guði réttlátir og sáluhólpnir; Helvíti hræðir oss ekki, því Kristur hefur leyst oss frá Helvéti: hvør sem á hann trúir, sá skal ekki tapast, heldur hafa eylift líf. O! einn glaðann dag! O! einn fagnaðardag! á hvørjum vér verðum um vora heilsu vissir gjørðir, og vor sáluhjálp staðfest. Jesus lifir, vér munum og lifa, hér, í trunni hønum sameinaðir, þar, í eylífri dýrðarprýði. Enn framar segja sálir vorar, glaðar og fagnandi í þeim upprisna Jesú: Jesú upprisa

er vor upprisa. Sé höfuðið upprisið, þá geta ei limirnir eptir orðið. Enn ei að eins munum vér á efsta degi upprísa, sem allar manneskjur, heldur munum vér upprísa sem börn Guðs, sem samarfar Jesú Kristí, fyrir hans forþénustu og fullnægjungjörð; þessvegna óttumst vér ecki gröfina, vér álítum hana sem svefuherbergi, sem móður kjöltu, sem stað vorrar hvíldar, í hvörjum vor heilsugjafari mun láta oss sofa, þángað til hann mun segja: rísið upp, þér dauðu, og komið fyrir dóminn. O! þá miklu dýrð, hvörja vor endurlausnari hefur oss afrekað! Upprísni Jesú! hvörsu kunnum vér nógsamliga þína náð og miskunsemi að útbreiða, víðfrægja og vegsama? O þú ómæliliga elska, sem oss hefur gefið lífið og sáluhjálpina! nú er allt aptur gott orðið, sem aflaga geck í Adams falli. Æ vor Lausnari! þín upprísa skal einnig vera oss kroptug huggun í vorum líðunum. Þú láſt byrgður í gröfinni, enn dýrðliga geckstú út af henni; þannig mun og líða nótt vorra líðana, og yfir oss aptur ljóma þin fagnaðarnáð, hjálpar- og endurnæríngar-sól. O Jesú! þú varst ei nema þrjá daga í gröfinni, svo er líka eptir vorar hörmúngar, ágvarðaður frínnarinnar dagur: eptir þan mæðufullu mótlætínga ár kemur það fagnaðarfulla lausnar ár; þú uppreist, hafandi forkláraðann líkama; þín sára ör og nagla sör, voru ei framar blóðug né kvalafull, heldur ljómandi sem sólin; svo munu og vorir líkamir, dýrðligir og forkláraðir verða, þegar þú munt uppvekja oss af duptinu; vér munum fá vorn fyrrverandi líkama, og vorri húð klæddir verða;

líkamar þeir og limir, sem þér þjónuðu, og þér voru helgaðir, munu verða hluttakandi himnesks ljóma, og dýrðligir. Já, þar þú, ó Jesú! lifir, þá höfum vér, þar sem þú ert, trúan staðfastann vin, sem oss mun forsorga í lífinu, viðhalda í líðunmnum, forsvara móti óvinunum, gledja í hrygðunum, endurnæra í dauðanum, varðveita í gröfinni, og loksins til dýrðarinnar leiða og kóróna. Amen!

**Versið:**

Með því vor lifir Lausnarinn, ljúfur elskandi sofnuðinn, hvað skyldum hryggvir vera? Heims sælan þó að flýi frá, fyrst sjálfur Jesus er oss hjá, það skyldum þola og bera; hann nærir, huggar, verndar vel, voðaligt þó að komi hel, sjálfur til sín oss tekur, þar sem hann lifir, loksins vér, limir hans verðum dýrðliger, oss til þess upp hann vekur.

---

